# Almanak

fyrir árið

# 1907

sem er þriðja ár eftir hlaupár og fyrsta ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

---

## ÞRETTÁNDA ÁR.

WINNIPEG.
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON
1906

## Á þessu ári teljast liðin vera:

| | |
|---|---|
| frá Krists fæðingu . . . . . . . . | 1907 ár |
| frá sköpun veraldar . . . . . . . | 5874 ár |
| frá upphafi Íslandsbygðar . . . . | 1033 ár |
| frá siðabót Lúters . . . . . . . . | 390 ár |

Árið 1907 er sunnudagsbókstafur: F.
Gyllintal: 8.

### Myrkvar árið 1907.

Á árinu 1907 verða 4 myrkvar, 2 á sólu og 2 á tungli. 1. Sólmyrkvi 13. jan., ekki sýnilegur hér. 2. Tunglmyrkvi 29. jan., að ofurlitlu leyti sýnilegur í Norður-Ameríku. 3. Sólmyrkvi 10. júlí, ósýnilegur hér. 4. Tunglmyrkvi 24.—25. júlí, að litlu leyti sýnilegur hér í Norður-Ameríku.

### Pláneturnar.

Venus er morgunstjarna til 14. sept., kveldstjarna til ársloka.

Marz er kveldstjarna til 6. júlí, eftir það morgunstjarna.

Júpíter er kveldstjarna til 16. júlí, morgunstjarna til ársloka.

Satúrnus er kveldstjarna til 9. marz, morgunstjarna til 17. september, síðan kveldstjarna.

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið.

Forn-Egiptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru,—og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum

hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkerta-ljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir — sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyrr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

---

**Páskatímabilið.**

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn *fyrsta* sunnudag eftir *fyrsta* tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þessu getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fullt 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fullt 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

**Sunnudagsbókstafur.**

Sunnudagsbókstafur árs hvers er ætíð einhver hinna eftirfylgjandi stafa: A, B, C, D, E, F, G; og eru þeir notaðir til að aðgreina sunnudagana í almanökunum í fastri röð (almanak eftir almanak). Hinn 1. janúar er A, 2. B, og 3. C. o. s. frv. Árið sem leið, bar fyrsta sunnudag í janúar upp á 7. jan. og því var sunnudagsbókstafur G. Í ár er sá dagur 6. jan. og því sunnudagsbókstafur F.

## Páskadagar.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1908 | 19. Apríl | 1915 | 4. Apríl |
| 1909 | 11. Marz | 1916 | 23. Apríl |
| 1910 | 27. Marz | 1917 | 8. Apríl |
| 1911 | 16. Apríl | 1918 | 31. Marz |
| 1912 | 7. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| 1913 | 23. Marz | 1920 | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasia skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreyfiagar jarðarinnar umhvergs sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínunni. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími“ aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu — á jafndægrum haust og vor — að „meðal sóltíma“ og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrstur trúboði, Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritam talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.

Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.

Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnaritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.

Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.

Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.

Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.

Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna.) 1262—63.

Svarti dauði geisaði 1402.

Seinni plágan 1495.

Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.

Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.

Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.

Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálksyni, 1540.

Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.

Fyrsta ísl. sáímabók, sem til er, prentuð 1555.

Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.

Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.

Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).

Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.

Stórabóla geysaði 1707.

Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.

Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.

Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.

Fyrst drukkið kaffi 1772.

Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.

Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.

Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.

Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.

Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.

Seinasta löggjafarþing haldið á þingvöllum við Öxará 1768.

Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.

Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.

Fyrsta organ sett í Leirárkirkju, 1800.

Landið gjört að biskupsdæmi 1801.

Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.

Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.

Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.

Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.

Hið íslenzka bókmentafélag stofnað 1816.

Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808.

Prentsmiðjan flutt frá Leirárg. til Viðeyjar 1819.

Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.

Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835

Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.

Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.

Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.

Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.

Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.

Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.

Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.

Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.

Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.

Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.

Forngripasafnið sett a stofn í Reykjavík 1863.

Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.

Þjóðvinafélagið stofnað 1870.

Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar . . . . . . . . . . . | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar . . . . . . . . . | 878 |
| Stofnun Rómaborgar . . . . . . . . . . | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar . . . . . | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands . . . . . . . | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi . . . . . . . . | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni . . . . . | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland . . . . . . . . | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bard. við Hastings | 1066 |
| Krossferðirnar byrja . . . . . . . . . . | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð . . . . . . . . . . | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz . . . . . . . . | 1462 |
| Columbus fann Ameríku . . . . . . . . . . | 1492 |
| England og Skotland sameinast . . . . . . | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar . . . . . . . . . | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar . . . . . . . . . . | 1704 |
| Friðarsamningarnir í Utrecht . . . . . . . | 1713 |
| Kanada tekin af Frökkum . . . . . . . . | 1759 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi . . . . . . . | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum . . . . . | 1779 |
| Fyrsta nýlenda stofns. í Ástralíu . . . . . . | 1788 |
| Napóleon Bónaparte verður keisari . . . . . | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's . . . | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva . . . . . . | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo . . . . . . . . . | 1815 |
| Fyrsta gufnskip fer yfir Atlantshaf . . . . . | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu . . . . . . . . | 1848 |
| Gullið fundið í Ástralíu . . . . . . . . . | 1851 |
| Fyrsta alheimssýning í London . . . . . . | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð . . . . . . . | 1867 |

---

## Stærð úthafanna.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. míl. | flatarmál |
| Suður-Íshafið | " | 30,592,000 | " | " |
| Indlandshafið | " | 17,084,000 | " | " |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Atlantshafið | er um | 24,536,000 | ferh. míl. | flatarmál |
| Kyrrahafið | " | 50,309,000 | " | " |

## Lengstur dagur

| | kl. tímar | mín. |
|---|---|---|
| Reykjavík . . . . . . . | 20 | 56 |
| Pétursborg (Rússlandi) . . . | 18 | 38 |
| Stokkhólmi (Svíþjóð). . . . | 18 | 35 |
| Edinburgh (Skotlandi) . . . | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn (Danmörku) . | 17 | 20 |
| Berlin (Þýzkalandi) . . . . | 16 | 40 |
| London (Englandi) . . . . | 16 | 34 |
| París (Frakklandi) . . . . | 16 | 05 |
| Victoria (British Columbia). . | 16 | 00 |
| Vínarborg (Austurríki) . . . | 15 | 56 |
| Boston (Bandaríkjum) . . . | 15 | 14 |
| Chicago " . . . . | 15 | 08 |
| Miklagarði (Tyrklandi) . . . | 15 | 04 |
| Cape Town (Suður-Afríku). . | 14 | 20 |
| Calcutta (Indlandi) . . . . | 13 | 24 |

## Þegar klukkan er 12

**á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í**

| | | |
|---|---|---|
| New York .......... | 12.12 | e. h. |
| St. John (Nýfundnalandi) | 1.37 | " |
| Reykjavík ............ | 3.37 | " |
| Dublin ............... | 4.43 | " |
| Edinburgh ........... | 4.55 | " |
| London ............... | 5.07 | " |
| París ................ | 5.17 | " |
| Róm ................. | 5.53 | " |
| Berlín ............... | 6.02 | " |
| Vínarborg ............ | 6.14 | " |
| Calcutta (Indl.)... ..... | 11.01 | " |
| Pekin (Kína).......... | 12.54 | f. h. |
| Melbourne (Ástralíu) .... | 2.48 | " |
| San Francisco ......... | 8.58 | " |
| Lima (Perú)........... | 12.00 | á hád. |

## JANÚAR hefir 31 dag 1907

MÖRSUGUR

**Umskurn Krists.** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| Þ | 1 | Nýársdagur |
| M | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1863 |
| F | 3 | |
| F | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 |
| L | 5 | 11. v. vetrar |

**Barnamorðið í Betlehem.** Matt. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 6 | 1. s. e. nýár. Þrettándi (Epiphania) |
| M | 7 | ☽Síð. kv. 8.18 e. m. — Knútsd. Eldbjargarm. |
| Þ | 8 | Bardaginn við New Orleans 1815 |
| M | 9 | Napóleon III. d. 1876 |
| F | 10 | |
| F | 11 | |
| L | 12 | Alfr. Tennyson f. 1810. 12. v. vetrar |

**Þegar Jesús var tólf ára.** Lúk. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 13 | 1. s. e. þrett. — ●Nýtt t. 11.28. — Geisladagur |
| M | 14 | |
| Þ | 15 | Sandvíkureyjar fundnar 1778 |
| M | 16 | British Museum opnað 1759 |
| F | 17 | Benjamín Franklín f. 1706 |
| F | 18 | Bulwer Lytton, skáld d. 1873. — Webster f. 1782 |
| L | 19 | Fyrst fundið gull í Californ. 1849. 13. v. vetrar. |

**Brúðkaupið í Kana.** Jóh. 2.

| | | |
|---|---|---|
| S | 20 | 2. s. e. þrett. — Bræðramessa |
| M | 21 | ☾Fyrsta kv. 2.13. — Agnesarmessa |
| Þ | 22 | Victoría drottning d. 1901. — Byron f. 1788 |
| M | 23 | Gustav Doré, málarinn mikl d. 1882 |
| F | 24 | Friðrik mikli f. 1712. |
| | | ÞORRI |
| F | 25 | Miður vetur. — Kirkjél. ísl. í Vheimi stofn. 1885 |
| L | 26 | 14. v. vetrar |

**Verkamenn í víngarði.** Matt. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 27 | Níuviknafasta. — Mozart f. 1757 |
| M | 28 | Holberg, danska skáldið d. 1754 |
| Þ | 29 | ○Fult t. 7.16. — McKinley, forseti f. 1843 |
| M | 30 | |
| F | 31 | Dr. Guðbrandur Vigfússon d. 1889 |

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1907

ÞORRI

F 1
L 2 Kyndilmessa. 15. v. vetrar

**Fernskonar sáðjörd.** Lúk. 8.

S 3 2. s. í níuviknaföstu. — Blasíusmessa
M 4
Þ 5 ☽Síð. kv. 6.23
M 6 Sir Henry Irving fæddur 1838
F 7 Charles Dickens fæddur 1812
F 8 Stríðið milli Rússa og Japansm. byrjað 1904
L 9 Baldvin Einarsson, lögfr. d. 1833. — 16. v. vetrar

**Skírn Krists.** Matt. 2.

S 10 Langafasta (sjöviknaf.)
M 11 Thomas Edison fæddur 1847
Þ 12 Sprengikvöld—● Nýtt t. 11.14.—Lincoln f. 1809
M 13 Öskudagurinn—Richard Wagner, tónfr. d. 1883
F 14 Lúters síðasta prédikan 1546
F 25
L 16 Melankton fæddur 1497. 17. v. vetrar

**Djöfullinn freistar Jesú.** Matt. 4.

S 17 1. s. í föstu. — Michel Angeló d. 1563.
M 18 Marteinn Lúter d. 1546
Þ 19 ☾Fyrsta kv. 10.06.
M 20
F 21
F 22 Pétursmessa. — George Washington f. 1732
L 23 Þorraþræll. 18. v. vetrar

**Kanverska konan.** Matt. 15.

GÓA

S 24 2.s. í föstu. — Ingemann danska skáldið d. 1862
M 25
Þ 26
M 27 ○Fullt t. 11.45. — Longfellow f. 1807
F 28

| MARZ | hefir 31 dag | 1907 |
|---|---|---|

| | | |
|---|---|---|
| | | GÓA |
| F | 1 | |
| L | 2 | Fyrsta þing Bandaríkjanna sett 1781. — 19. v. v. |
| | | **Jesús rak út djöful.** Lúk. 11. |
| S | 3 | 3. s. í föstu. — Jónsmessa, Hólab. h. f. |
| M | 4 | |
| Þ | 5 | |
| M | 6 | Sveinbjörn Egilsson f. 1791 |
| F | 7 | ☽Síð. kv. 2.13 |
| F | 8 | Jón Thoroddsen d. 1868 |
| L | 9 | Merrimac og Monitor bard. 1862. 20. v. v. |
| | | **Jesús mettar 5000 manns.** Jóh. 6. |
| S | 10 | Miðfasta. — Edward VII. giftist 1863 |
| M | 11 | |
| Þ | 12 | Síra Pall Þorláksson d. 1882 |
| M | 13 | ●Nýtt t. 11.36. — Dr. Guðbr. Vigfúss. f. 1827 |
| F | 14 | Sigurður Breiðfjörð f. 1778 |
| F | 15 | Fyrsta þing Manitobafylkis sett 1871 |
| L | 16 | Gvöndardagur (Guðm. h. góði Hólab.)—21. v. v. |
| | | **Gabríel engill sendur.** Lúk. 1. |
| S | 17 | 5. s. í föstu. — Björn Gunnlögsen d. 1876 |
| M | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| Þ | 19 | David Livingstone f. 1813 |
| M | 20 | |
| F | 21 | ☾Fyrsta kv. 6.41. — Jafndægur. Vor byrjar. |
| F | 22 | Göethe d. 1832 |
| L | 23 | Riels uppreistin í V.-Can. hófst 1885. — 22. v. v. |
| | | **Innreið Jesú í Jerúsalem.** Matt. 21. |
| S | 24 | Pálmasunnudagur. Dymbilvika |
| M | 25 | Góuþræll Einmánuður |
| Þ | 26 | Beethoven, tónfr. d. 1827 |
| M | 27 | John Bright, enski stjórnmálamaðurinn d. 1889 |
| F | 28 | Skírdagur |
| F | 29 | Föstud. langi—○F.t. 1.15.—Swedenborg d. 1772 |
| L | 30 | 23. v. vetrar |
| | | **Krists upprisra.** Mark. 16. |
| S | 31 | Páskadagur |

# APRÍL hefir 30 daga 1907

EINMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Bismark f. 1815 |
| Þ | 2 | Emil Zola f. 1840 |
| M | 3 | Washington Irving f. 1783 |
| F | 4 | Oliver Goldsmith d. 1774 |
| F | 5 | ☾Síð. kv. 8.51 |
| L | 6 | Canada fundin 1780. 24. v. vetrar |

**Jesús kom að læstum dyrum.** Jóh. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 1. s. e. páska. — Canning fæddur 1780 |
| M | 8 | Kristján IX. fæddur 1818 |
| Þ | 9 | |
| M | 10 | General Booth f. 1829 |
| F | 11 | Leónisdagur |
| F | 12 | ●Nýtt t. 9.30 — Henry Clay f. 1777 |
| L | 13 | Thomas Jefferson f. 1743. 25. v. vetrar |

**Jesús er góði hirðirinn.** Jóh. 10.

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 2. s. e. páska. — Lincoln skotinn 1863 |
| M | 15 | Shakespeare fæddur 1564 |
| Þ | 16 | Magnúsmessa Eyjajarls (h. f.) |
| M | 17 | Benjamín Franklín dáinn 1790 |
| F | 18 | |
| F | 19 | Melankton d. 1560. — Byron d. 1854 |
| L | 20 | ☽Fyrsta kv. 2.19 f. m. — Sumarm. (26. v. vetr.) |

**Burtför Krists til föðursins.** Jóh. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 3. s. e. páska. — Jón Hjaltalín landlækn. f. 1807 |
| M | 22 | |
| Þ | 23 | Jónsmessa (Hólab. h. s.). — Shakespeare d. 1616 |
| M | 24 | Dan. Defoe dáinn 1731 |
| | | HARPA |
| F | 25 | Sumardagurinn fyrsti. 1. v. sumars |
| F | 26 | Moltke d. 1891—Þrælastríðið hætti 1865 |
| L | 27 | ○Fult t. 11.36 e.m. — U.S. Grant, hersh. f. 1822 |

**Sending heilags anda.** Jóh. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 4. s. e. páska |
| M | 29 | Krím-stríðið hætti 1856. |
| Þ | 30 | |

# Werner's Spotted Pills
## lækna þig.

Þær eru hið bezta blóðhreinsunar-lyf; styrkja taugarnar og fjörga betur en nokkurt annað meðal, sem til er á jörðunni. Áhrifameira meðal hefir aldrei verið búið til. Hver sá, er hefir notað þær, er öldungis hissa á verkun þeirra, enda eru þær samsettar af hinum ágætustu efnum, og þykja þær stórkostleg sigurvinning fyrir meðalafræðina.




„SPOTTED PILLS" **lækna**: —

Allskonar floggigt, mjaðmagigt, grátsýki, svefnleysi taugaveiklun, aflmissi, illa drauma, taugaslekju, veiklun, kynfæra-bilun, titring í útlimum, höfuðverk taugaskjálfta, þunglyndi, minnisleysi og margt fl.

Kvenfólkið getum vér fullvissað um það, að ekkert meðal er jafn styrkjandi og betri vörn gegn ýmsum sjúkdómum en ,,SPOTTED PILLS".

### Hvað segir svo fólkið um Spotted Pills.

(1) ,,Eg brúkaði að eins tvær öskjur og afleiðingarnar gerðu mig steinhissa". — Miss C.

(2) ,,Eg er sem nýr maður síðan eg fór að brúka ,,Spotted Pills". — Miss. C—e.

(3) ,,Þú getur verið rólegur. Eg vil láta alla mína vini vita hvað ,,Spotted Pills" hafa gjört fyrir mig". — Miss W.

(4) ,,Maðurinn minn segir að ykkar ,,Spotted Pills" séu það sæði sem framleiði hraustleik og blómlegt útlit — þær höfðu merkileg áhrif til góðs á mig". — Mrs. S—e.

WERNERS' SPOTTED PILLS.

Til kaups hjá öllum lyfsölum fyrir 50c., 6 fyrir $2.50.
Eða sent frítt með pósti við viðtöku peninganna.

## The Martin, Bole & Wynne Co.,

aðaleigendur, Winnipeg, Manitoba.

# MAÍ hefir 31 dag 1907

| | | |
|---|---|---|
| | | HARPA |
| M | 1 | Tveggjapostulam. — Dav. Livingstone d. 1873. |
| F | 2 | Dewey eyðilagði spánska flotann við Manilla 1898 |
| F | 3 | Krossmessa á vori. [2. v. sumars. |
| L | 4 | ☾Síð. kv. 3.24 |
| | | **Biðjið í Jesú nafni.** Jóh. 16. |
| S | 5 | 5. s. e. páska. — Napóleon Bónap. d. 1821. |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | |
| M | 8 | John Stewart Mill d. 1873. |
| F | 9 | Uppstigningardagur. — Schiller d. 1805. — 3. v. s. |
| F | 10 | Eldaskildagi. |
| L | 11 | |
| | | **Þegar hugarinn kemur.** Jóh. 15. |
| S | 12 | 6. e. páska. — ●Nýtt t. 2.30 |
| M | 13 | Stofnuð fyrsta enska nýlendan í Ameríku 1601. |
| Þ | 14 | |
| M | 15 | Hallvarðsmessa. — Pétur bisk. Pétursson d. 1891. |
| F | 16 | 4. v. sumars. |
| F | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841. |
| L | 18 | Rússakeisari f. 1868. |
| | | **Sá, sem elskar mig.** Jóh. 14. |
| S | 19 | Hvítasunnudagur. — Gladstone d. 1898. |
| M | 20 | ☽Fyrsta kv. 6.54 f.m. — Columbus d. 1506. |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | Sæmundur fróði d. 1133 |
| F | 23 | 5. v. sumars<br>SHERPLA |
| F | 24 | Victoría drottning fædd 1819. |
| L | 25 | Úrbanusmessa. |
| | | **Kristur og Nekódemus.** Jóh. 2. |
| S | 26 | Trínitatis—Þrenningarhát. — J. Hallgr.s. d. 1845. |
| M | 27 | ○Fult t. 7.49. — Calvin d. 1564. |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888. |
| F | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768. 6. v. sumars. |
| F | 31 | Jón Guðmundsson, ritstjóri „Þjóðólfs" d. 1876. |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1907

SKERPLA.

| | | |
|---|---|---|
| | | **Hinn auðugi maður.** Lúk. 16. |
| S | 2 | 1. s. e. trin. — ☽Síð. kv. 10.51. |
| M | 3 | |
| Þ | 4 | |
| M | 5 | |
| F | 6 | Alexander mikli f. 356 f. Kr. 7. v. sumars. |
| F | 7 | Síra Tómas Sæmundsson fæddur 1807. |
| L | 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1882. |
| | | **Hin mikla kvöldmáltíð.** Lúk. 14. |
| S | 9 | 2. s. e. trín. — Charles Dickens d. 1870. |
| M | 10 | ●Nýtt t. 5.21. |
| Þ | 11 | |
| M | 12 | W. C. Bryant d. 1878. |
| F | 13 | Jón Sveinsson, landlækn. d. 1803. 8. v. sum. |
| F | 14 | Sig. Melsted, lector d. 1897. |
| L | 15 | John, Englandsk. undirskr. *Magna Carta* 1215. |
| | | **Hinn týndi sauður.** Lúk. 15. |
| | 16 | 3. s. e. trín. |
| M | 17 | Jón Sigurðsson fæddur 1811. |
| Þ | 18 | ☾Fyrsta kv. 8.26. |
| M | 19 | |
| F | 20 | 9. v. sumars. |
| F | 21 | Krisján Jónsson, skáld, f. 1842. |
| L | 22 | Sólstöður, lengstur dagur. |
| | | **Verið miskunsamir.** Lúk. 6. |
| S | 23 | 4. s. e. trín. |
| | | SÓLMANUDUR. |
| M | 24 | Jónsmessa. — Kristni lögtekin á Ísl. 1000. |
| Þ | 25 | ◯Fult t. 2.54. Ágsborgarjátningin 1530. |
| M | 26 | |
| F | 27 | 10. v. sumars. |
| F | 28 | Victoría drottning krýnd 1838. |
| L | 29 | Pétursmessa og Páls. |
| | | **Jesús kennir af skipi.** Lúk. 5. |
| S | 30 | 5. s. e. trín. |

# JÚLÍ hefir 31 dag 1907

SÓLMANUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Dominion dagur. |
| Þ | 2 | ◑Síð. kv. 8.05. — Sviðhúnsmessa (h. f.). |
| M | 3 | Quebec-borg grundvölluð 1605. |
| F | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776). — 11. v. s. |
| F | 5 | |
| L | 6 | |

**Réttlæti faríseanna.** Matt. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | 6. s. e. trin. — Jóh. Húss brendur 1415 |
| M | 8 | Seljumannamessa |
| Þ | 9 | |
| M | 10 | ●Nýtt t. 8.48. — John Calvin f. 1509 |
| F | 11 | 12. v. sumars |
| F | 12 | |
| L | 13 | Margrétarmessa |

**Jesús mettar 4000 manna.** Mark. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 7. s. e. trín. — Franska stjórnarbyltingin 1789 |
| M | 15 | Sviðhúnsmessa (h.s.) — Krossfarendur tóku Jerú- |
| Þ | 16 | [salem 1099 |
| M | 17 | |
| F | 18 | ☾Fyrsta kv. 6.43. 13. v. sumar |
| F | 19 | |
| L | 20 | Þorláksmessa á sumri. — Guðbr. bisk. d. 1627 |

**Um falsspámenn.** Matt. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 8. s. e. trín. |
| M | 22 | |
| Þ | 23 | Hundadagar byrja |
| M | 24 | ○Fult t. 10.00. — Canada fund. 1554. — Aukan. |
| F | 25 | Jakobsmessa. 14. v. sumars |
| F | 26 | Franska stjórnarbyltingin 1830 |
| L | 27 | Atlantshafs ritsíminn fullagður 1886 |

**Hinn rángláti ráðsmaður.** Lúk. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 9. s. e- trín. Heyannir. Miðsumar. |
| M | 29 | Ólafsmessa (h. f.) |
| Þ | 30 | William Penn d. 1718 |
| S | 31 | ◑Síð. kv. 7.56. |

Láttu ekki

# gigtina kvelja þig

einn einasta dag lengur.

Hví skyldirðu lifa við kvalir og angist dag eftir dag og viku eftir viku og gera sjálfan þig að aumingja. Byrjaðu í dag að taka.

# 7 Monks' Rheumatic Cure.



MAN WITH SYMPTOMS

Lyf þetta lœknar eftirfylgjandi sjúkdóma:

Gigt, mjaðmagigt, köldu, lendaverk fluggigt, stöðuga gigt, vöðvagigt, ofkælingar-gigt, liðabólgu, þvagteppu, fótkrampa í gömlu fólki og fl.

## Það sem sagt er um lyf þetta:

Þegar vér sýndum „7 Monks meðölin á Winnipeg-sýningunni í Júlí 1905 kom tíginborin, öldruð frú til okkar, og mæiti til þeirra er voru að skoða sýningarmuni vora.

Hvert orð er um „7 Monks' Rheumatic Cure" er sagt, er dagsatt Fyrir einu ári brúkaði ég þetta lyf og það gerði mig albata. Eg leið voða-kvalir í bakinu, er algerlega hurfu. Maðurinn minn þjáðist líka af gigt, en hann varð líka alheill við sömu lyf, og við erum bæði hjartanlega þakklát og mælum hið bezta með því við þá, er gigt þjáir.

Kona þessi heitir Mrs. Cudmore, og hefir notið almennrar virðingar og hylli í Winnipeg í 20 ár.

### Var ráðalaus.

Francis, Sask, 15. júní 1905

Herrar.

Eg hefi brúkað „7 Monks' Rheumatic Cure", og það er hið eina lyf, er hefir gert mig albata.

Yðar einlæg
Mrs. C. Molde

### Gott lyf.

Minnedosa 18. sept. —'05

Kæru herra.

Eg hefi brúkað „7 Monks' Rheumatic Cure" og er albata.

Yðar einlæg
Maude B. Rechey

### Gigt læknuð í Keyes.

Keyes, 16. Febr. —'05.

Kæru herrar.

Eg brúkaði „7 Monks' Rheumatic Cure" og hefi aldrei reynt slíkt lyf.

Yðar einlægur
B. Riley.

Verð $1.00. 6 á $5.00.

## 7 Monks Company. Aðaleigendur.

WINNIPEG CANADA.

# ÁGÚST hefir 31 dag 1907

HEYANNIR

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Bandadagur. — Jón Espólín d. 1836. — 15. v. s. |
| F | 2 | Ben. Sveinsson, sýslum., d. 1899. |
| L | 3 | Ólafsmessa (h. s.). |

**Jesús grætnr yfir Jerúsalem.** Lúk. 19.

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | 10 s. e. trín. — H. C. Anderson d. 1875 |
| M | 5 | Brynjólfur biskup Sveinsson d. 1675 |
| Þ | 6 | |
| M | 7 | |
| F | 8 | Canning d. 1827. 16. v. sumars. |
| F | 9 | 🌑Nýtt t. 0.07. — Kapteinn Marryat d. 1818 |
| L | 10 | Lafranzmessa |

**Faríseinn og tollheimtumaðurinn.** Lúk. 18.

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | 11. s. e. trín. |
| M | 12 | |
| Þ | 13 | Manilla-borg gafst upp 1898 |
| M | 14 | Napóleon I. f. 1769 |
| F | 25 | Maríumessa (h. f.) 17. v. sumars |
| F | 16 | ☾Fyrsta kv. 2.36 |
| L | 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 |

**Daufi og málhalti maðurinn.** Matt. 7.

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | 12. s. e. trín.. — Austurríkiskeisari f. 1830 |
| M | 19 | Gestur Pálsson d. 1892 |
| Þ | 20 | |
| M | 21 | |
| F | 22 | 18. v. sumars |
| F | 23 | 🌕Fult. t. 5.46. — Hundadagar enda |
| L | 24 | Bjarni Thorarensen d. 1841 |

**Hinn miskunnsami Samverji.** Lúk. 10.

| | | |
|---|---|---|
| S | 24 | 13. s. e. trín. |
| M | 25 | |
| Þ | 26 | Ágústín d. 430 |
| M | 27 | Leó Tolstoi f. 1828. — Goethe f. 1749 |
| F | 28 | 19. v. sumars |
| F | 29 | ☽Síð. kv. 10.50. —Höfuðdag. — Jón bisk. Vída- |
| L | 30 | John Bunyan d. 1688 [lín d. 1720 |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1907

TVÍMANUÐUR

**Tíu líkþráir.** Lúk. 17.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 14. s. e. trín. |
| M | 2 | Verkamannadagur í Canada |
| Þ | 3 | Cromwell d. 1658 |
| M | 4 | Franska lýðveldið stofnað 1870 |
| F | 5 | 20 v. sumars |
| F | 6 | McKinley forseti skotinn í Buffalo 1901 |
| L | 7 | ●Nýtt t. 2.25 |

**Enginn kann tveim herrum að þjóna.** Matt. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 15. s. e. trín. — Maríumessa (h. s.) |
| M | 9 | |
| Þ | 10 | |
| M | 11 | |
| F | 12 | Bardaginn við Quebec. 21. v. sumars |
| F | 13 | Bretar taka Quebec 1759 |
| L | 14 | ☾Fyrsta kv. 9.11. — Wellington, hersh. d. 1852 |

**Sonur ekkjunnar í Nain.** Lúk. 7.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 16. s. e. trín. |
| M | 16 | Moskow-borg brend 1812 |
| Þ | 17 | |
| M | 18 | Garfield d. 1881 |
| F | 19 | 22. v. sumars |
| F | 20 | |
| L | 21 | ☺Fult t. 3.05. — Walter Scott d. 1832 |

**Vatnssjúki maðurinn.** Lúk. 14.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 17. s. e. trín. — Tyrkjasoldán f. 1842 |
| M | 23 | Jafndægur. Haust byrjar. — Snorri Sturluson [d. 1241 |
| Þ | 24 | |
| M | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788. — HAUSTMANUÐUR |
| F | 26 | 23. v. sumars |
| F | 27 | |
| L | 28 | L. Pasteur d. 1895 |

**Hvers son er Kristur?** Matt. 22.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 18. s. e. trín. — ☽Síð. kv. 5.08 —Mikaelsmessa |
| M | 30 | |

# OKTÓBER hefir 31 dag 1907

HAUSTMANUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | | |
| M | 2 | Fyrsta járnbraut í Bandaríkjunum fullgerð 1835 | |
| F | 3 | Pétur bisk. Pétursson f. 1787. | 24. v. sumars |
| F | 4 | | |
| L | 5 | | |

**Limafallssjúki maðurinn.** Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 19. s. e. trín. — Eldadagur. — Tennyson d. 1892 | |
| M | 7 | ●Nýtt t. 3.52. — Edgar A. Poe d. 1849 | |
| Þ | 8 | | |
| M | 9 | Chicago-bruninn mikli 1871 | |
| F | 10 | | 25. v. sumars |
| F | 11 | Búarnir sögðu Bretum stríð 1899 | |
| L | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | |

**Brúðkaupsklæðin.** Matt. 22

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 20 s. e. trín. | |
| M | 14 | ☾Fyrsta kv. 3.33. — Kalixtusmessa | |
| Þ | 15 | Gregoriska tímatalið innleitt 1582 | |
| M | 16 | Robert Stephenson f. 1803 | |
| F | 17 | | 26. v. sumars |
| F | 18 | Lúkasmessa | |
| L | 19 | Jónatan Swift d. 1745 | |

**Konungsmaðurinn.** Jóh. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 21. s. e. trín. — Síra Jón Þorláksson d. 1819 | |
| M | 21 | ☺Fult t. 2.47. — Nelson d. 1805 | |
| Þ | 22 | Jón Espólín f. 1769 | |
| M | 23 | William Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| F | 24 | Veturnætur | (af 27. v. sumars) |
| | | | GORMANUÐUR |
| F | 25 | | |
| L | 26 | Moltke, hershöfðingi f. 1800. | 1. v. vetrar |

**Jesús prédikar um sælu.** Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 22. s. e. trín. — Síra Hallgr. Pétursson d. 1674 | |
| M | 28 | Harward-skólinn stofnsettur 1636 | |
| Þ | 29 | ☽Síð. kv. 1.22 | |
| M | 30 | Gambetta f. 1832 | |
| F | 31 | Reformazion Lúters 1517 | |

# NÓVEMBER hefir 30 daga 1907

| | | |
|---|---|---|
| | | GORMANUDUR |
| F | 1 | Allra heilagra messa |
| L | 2 | Allra sálnamessa. — Jenny Lind d. 1887.— 2.v.v. |
| | | **Skattpeningurinn.** Matt. 22. |
| S | 3 | 23. s. e. trín. |
| M | 4 | |
| Þ | 5 | Nýtt t. 4.10 |
| M | 6 | |
| F | 7 | Jón Arason, hálshöggvinn 1550 |
| F | 8 | Milton d. 1674. |
| L | 9 | Skúli Magnússon d. 1794. 3. v. vetrar |
| | | **Blóðfallssjúka konan.** Matt. 9. |
| S | 10 | 24. s. e. trín. — Lúter f. 1483 |
| M | 11 | Marteinsmessa |
| Þ | 12 | Fyrsta kv. 10.45 |
| M | 13 | |
| F | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 |
| F | 15 | |
| L | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 4. v. vetrar |
| | | **Viðurstygð eyðileggingarinnar.** Matt. 24. |
| S | 17 | 25. s. e. trín. — Suez-skurðurinn opnaður 1869 |
| M | 18 | |
| Þ | 19 | Fult. t. 5.25 |
| M | 20 | Sir Wilfried Lourier f. 1841 |
| F | 21 | Maríumessa |
| F | 22 | Cecilíumessa |
| L | 23 | Klemensmessa. 5. v. vetrar |
| | | **Eg þakka þér, faðir.** Matt. 11. |
| S | 24 | 26. s. e. trín. |
| | | ÝLIR |
| M | 25 | Katrínarmessa |
| Þ | 26 | |
| M | 27 | Síð. kv. 9.52 — Grímur Thomsen d. 1896 |
| F | 28 | Washington Iriving d. 1850 |
| F | 29 | |
| L | 30 | 6. v. vetrar |

# DESEMBER hefir 31 dag 1907

| | | | Ýlir |
|---|---|---|---|
| | | **Innreið Krists í Jerúsalem.** Matt. 21. | |
| S | 1 | 1. s. í jólaföstu. — Adventa | |
| M | 2 | Bardaginn við Austerlitz 1805 | |
| Þ | 3 | | |
| M | 4 | | |
| F | 5 | ●Nýtt t. 3.53. — Mozart d. 1791 | |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Jón Sigurðsson d. 1879. | 7. v. vetrar |
| | | **Teikn á sólu, tungli og stjörnum.** Lúk. 21. | |
| S | 8 | 2. s. í jólaföstu. — Maríumessa | |
| M | 9 | Milton f. 1608 | |
| Þ | 10 | Alex Dumas sr. d. 1870 | |
| M | 11 | ☾Fyrsta kv. 7.47. — Marteinsmessa | |
| F | 12 | Skúli Magnússon f. 1711. | |
| F | 13 | Lucíumessa. — Síra J. Þorláksson f. 1741 | |
| L | 14 | Geo. Washington d. 1799 | 8. v. vetrar |
| | | **Jóhannes í böndum.** Matt. 11. | |
| S | 15 | 3. s. í jólaföstu | |
| M | 16 | New York bruninn mikli 1835 | |
| Þ | 17 | | |
| M | 18 | | |
| F | 19 | ☺Fult t. 11.26 | |
| F | 20 | | |
| L | 21 | Tómasmessa. | 9. v. vetrar |
| | | **Vitnisburður Jóhannesar skírara.** Jóh. 1. | |
| S | 22 | 4. s. í jólaföstu. — Sólhvörf. Skemstur dagur | |
| M | 23 | Þorláksmessa | |
| Þ | 24 | Aðfangadagur. — Jólanótt, — nóttin helga | |
| M | 25 | Jóladagur | |
| F | 26 | Annar í jólum | |
| F | 27 | ☽Síð. kv. 4.41 | |
| L | 28 | | 10. v. vetrar |
| | | **Símon og Anna.** Lúk. 2. | |
| S | 29 | Sd. milli jóla og nýárs.— Gladstone f. 1809 | |
| M | 30 | Bjarni Thorarensen f. 1786 | |
| Þ | 31 | Gamlársdagur | |



Snorri Sturluson.

# ALMANAK.

13 ár. Winnipeg, Canada. 1907

## Sigtryggur Jónasson.



ER fram líða stundir, mun það all-mikilsvert þykja að hafa áreiðanlegar sagnir af þeim mönnum, sem fluttust búferlum frá fósturjörð sinni, og tóku sér bólfestu í hinum nýja heimi fyrir vestan haf. Hvernig þeim gekk að ryðja sér braut í ókunnu landi og hvernig þeim tókst að hasla sér völl með kappgjörnustu framfaraþjóð heimsins verður ávalt öllum Íslendingum hugðnæmt umhugsunarefni.

Hver sem virða vill fyrir sér sögu Vestur-Íslendinga frá fyrstu upptökum, hlýtur ósjálfrátt að staðnæmast við nafn Sigtryggs Jónassonar. Hans mun ávallt minst verða sem höfðingja í flokki íslenzkra vesturfara. Fáum mönnum hefir fósturjörð vor haft meiri ástæðu til að horfa á bak með söknuði, er hann varpaði teningum og sneri í vestur-átt. Því eigi var hann ólíklegastur ungra manna til þarflegra framkvæmda og til að gjörast forsprakki nauðsynlegra stórvirkja, hefði hann staðnæmst á fósturjörð sinni.

Hann er einn hinna stórhuguðustu Íslendinga, er vér þekkjum. Hvort jafnmikið hefði á því borið, ef hann hefði alið aldur sinn á fósturjörðu vorri, skulum vér láta

ósagt. En nær er oss að halda, að þar hefði af eðlilegum ástæðum síður komið í ljós, hvílíka hæfileika hann hefir til stórræða, og hve djarfmannlega honum er tamt að leggja út í það, er aðrir kalla ófærur.

Eitt hið raunalegasta í sambandi við litla þjóð er það, í hve litlu broti mönnum er gjarnt til verða. Alt hjálpast til að gjöra menn að smámennum. Sjóndeildarhringur fer eftir landareign. Englendingar tala um *insularity*, eða eyjabrag í hugsunarhætti. Þeim sé gjarnt til þröngsýnis af því takmörk eyjar þeirra sé þröng. Bræðrum sínum á meginlandi standi þeir að sama skapi á baki í andlegu víðsýni sem landrými er þar minna. En bætt hafa þeir úr skák með því, að leggja meiri lönd undir sig en nokkur þjóð önnur og má svo að orði kveða, að nú hafi þeir útsýn um heim allan úr eigin landareignum. Enda eru þeir nú allra mannn færastir til allra stórræða.

En á vorri smælingjaþjóð, sannast oft hið fornkveðna:

lítilla sæva,
lítilla sanda,
lítil eru geð guma.

Andlegt atgervi og hugur til stórræða verður lágvaxið eins og þjóðin. Menn ná naumast seiling sína, því eigi þykir ómaksvert að rétta úr sér. Þröngur kostur þrýstir mönnum ósjálfrátt saman. Hæfileikar fara forgörðum, þar sem ilt er að koma ár fyrir borð. Mörgum ágætum róðrarmanni hefir verið meinað sæti á þóftu, og aldrei fengið að sýna list sína.

**Sigtryggur Jónasson** er fæddur 8. febrúar 1852 á Bakka í Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu. Faðir hans, Jónas Sigurðsson, bjó lengi á Bakka, þangað til hann flutti að Fremrikotum í Norðurárdal í Skagafjarðarsýslu og síðan að Bakkaseli í Öxnadal. Þar lézt hann 75 ára gamall, ár-

ið 1895. Hann var af Hvassafellsætt svonefndri í Eyjafirði, skyldur Jónasi Hallgrímssyni, skáldinu; móðir Jónasar og amma Sigtryggs voru systur. En móðir hans



Sigtryggur Jónasson.

var Helga Egilsdóttir frá Syðri-Bægisá í Öxnadal; hún var af ætt Árna biskups frá Hólum.

Með foreldrum sínum dvaldist Sigtryggur þangað til

hann var 12—13 ára gamall. Þá fór hann til Péturs Hafstein amtmanns og var hjá honum að mestu leyti, þangað til hann var tvítugur; fyrstu árin sem léttadrengur og fylgdarsveinn, seinni árin sem skrifari hans. Frá Hafsteini amtmanni fór hann árið 1872, eða ári eftir að hann fór frá embætti.

Í æsku naut Sigtryggur tilsagnar í almennum fræðum, svo sem skrift, reikningi og dönsku, hjá farand-kennara einum, Tómasi Davíðssyni. Var hann einn ef elztu umferðakennurum á Norðurlandi og var stundum nefndur tungumála-Tómas, því hann var þá manna bezt að sér í tungumálum. Kendi hann mörgum, er síðar hafa vel að manni orðið, og bera þeir allir til hans hlýjan hug, því hann var ljúfmenni mikið og góður drengur og lagði ávalt alúð mikla við þá, er nám stunduðu hjá honum. Er hann enn á lífi og mun hafast við á nýbýli einu í Kræklingahlíð. Við veruna hjá amtmanni og þau störf, er Sigtr. var þar trúað fyrir, óx svo smám saman þekking hans fyrir æfing og eftirtekt, að hann ritaði dönsku laukrétt og kunni jafnvel töluvert í ensku, áður hann fór frá Friðriksgáfu.

Þegar amtmannaskifti urðu, fekk hann tilboð frá Christiansen amtmanni um að gjörast skrifari hans. En þá var útfararþrá komin í huga hans. Var hann farið að langa til að skoða sig um í heiminum og sjá siðu annarra þjóða og háttu. Hefir sú útfararþrá ef til vill aukist við að komast niður í ensku máli. En tilsagnar í því hafði hann notið hjá dóttur Hafsteins amtmanns, Þórunni, er síðar varð frú Jónassen, landlæknis í Reykjavík.

Sumarið 1872 kastar hann teningum og ræðst til Ameríkuferðar. Þeir bræður, síra Páll heitinn Þorláksson og Haraldur bróðir hans, voru þá komnir til Milwaukee-borgar í Wisconsin-ríki. En þeir voru þá einu ísl. Ameríkufarar, er nokkurar sögur höfðu farið af. Sigtryggur er

nú að eins tvítugur að aldri og sýnir þessi ráðabreyting hans þegar, hve stórhuga maður hann var. Því einn síns liðs leggur hann út í heiminn. Hann er einn hinna allra-fyrstu, er Ameríkuhug lýstur niður hjá.

Til Quebec kom hann 12. september 1872. Hugsaði hann sér þegar að kynnast í Kanada, en leita ekki suður eða vestur til Bandaríkja, þótt hann vissi þar af þeim Stórutjarnabræðrum. Fyrir brezka veldinu bar hann þegar mikla lotningu og áleit því bezt að staðnæmast undir verndarvæng þess.

Frá Quebec fór hann til Kingston og þaðan til Toronto. En frá þeirri stórborg fór hann til London í Ontario-fylki, sem er bær miklu smærri. Þar nam hann staðar einar þrjár vikur og gekk að vinnu hjá félagi einu, er *Ontario Car Co.* nefnist og býr til alls konar brautarvagna.

Þaðan fór hann til annars bæjar nokkuru sunnar, er St. Thomas nefnist, og réðst til vinnu hjá járnbrautarfélagi einu, er *Canadian Southern R'y Co.* nefnist. Það var þá að leggja brautir í óða önn frá Detroit-fljóti austur að Niagara og umsýsla öll með miklu fjöri. En eigi átti það lengi að haldast í það skifti. Þá kom alt í einu bankahrun mikið fyrir í borginni New York í sambandi við fjáraflamanninn fræga, J. Cook. Féllust mönnum þá hendur og deyfð og drunga sló yfir land alt. Varð þá margt stórræðið að hætta og járnbrautalagningum lokið í bili.

Frá St. Thomas hvarf Sigtryggur í desember mánuði, sama ár, og fór þá 26 mílur vestur að brautarstöð einni, er Bismarck nefnist. Þar réðst hann til sögunarmylnueiganda eins og vann um hríð við að ná sögunar-timbri úr skógi.

Við þetta starf var hann þangað til vorið 1873 og hafði þá lært flest, er að því laut. Þá gekk hann í félag

með Kanadamanni einum og tóku þeir að sér að gjöra þvertré í skógi fyrir járnbrautarfélag eitt í New York-ríki (*New York Central*); eru slík þvertré höggin úr eikartré og lögð þvers yfir brautir, svo járnbrautarteinar geti hvílt á endum þeirra.

Að þessu starfi græddist honum fyrst fé svo að nokkuru næmi. Hafði hann nálægt 1100 dali í pússi sínum að hausti og má nærri geta, að honum hefir eigi fundist það lítil auðlegð.

Þarna var hann þá að sams konar störfum þangað til seint um veturinn 1874. Þá voru Íslendingar komnir til Roseau í Muskoka-héraði og fór hann nú að finna þá. Langaði þá alla til að ná sér í landskika, þar sem þeir gæti tekið sér bólfestu og farið að búa.

Varð það þá uppi á tening, að hann færi með nokkurum þeirra vestur til bæjar þess, er Parry Sound nefnist, og skoðaði lönd þar norður af. Fóru þeir allir fótgangandi ferð þessa. Ætluðu þeir alla leið til *Lake Nipissing*, en komust ekki alla leið fyrir leysingum; fóru að eins til *Magnetuan river*. Tíu daga voru þeir í landkönnunarför þessari. Ekkert leizt þeim sérlega vel á landkosti og hurfu frá því að nema þar land.

En Sigtryggur dvaldist norður þar, þangað til um sumarið, að von var hins mikla innflytjendahóps frá Íslandi; er vestur fluttist sumarið 1874. Var hann fenginn af Ontario-stjórn til að mæta fólki þessu, er það stigi af skipsfjöl, og leiðbeina því. Til þess var hann fyrir allra hluta sakir færastur, þeirra er völ var á, enda bezt til þess kjörinn, þar sem hann var fyrsti maður, er tekið hafði sér bólfestu í Kanada, af íslenzku þjóðerni, svo að kunnugt sé.

Í hópi þessum mun hafa verið eitthvað um 350 manns. Með þetta fólk fór hann til *Kinmount*, bæjar eins

lítils, norðaustur frá Toronto. Þar nam það flest staðar í bili, þó sumir yrði eftir í Toronto og einstöku leituðu suður og vestur til Bandaríkja.

Þarna í Kinmount var Sigtryggur um veturinn 1874—'75. Í félagi við innlendan mann einn byrjaði hann þar verzlan. Eftir nokkurn tíma keypti hann hlut félaga síns í verzlan þessari. Fekk þá Sigtryggur Friðjón Friðriksson, sem nú var kominn til Toronto, til að stýra verzlan þessari fyrir sig, því sjálfur hafði hann við mörgu að snúast.

Í Kinmount hafði þessi hópur Íslendinga sezt að, af því þar var verið að leggja járnbraut og atvinnu var þar að fá þess vegna, en lítið mjög um aðra atvinnu í landi. En ekki undu þeir því vel að verða að vinna daglaunavinnu og þráðu að geta fengið sér hentugt jarðnæði, þar sem þeir gæti sett sig niður og farið að búa. Um vorið 1875 skoðaði Sigtryggur sig um ígrendinni við Kinmount, einkum í norðurátt; en land fanst honum þar hrjóstugt og fremur óálitlegt til ábúðar. Lítið var líka um atvinnu og framtíð léleg fyrir höndum.

All-margir álitu, að tiltækilegast væri að hverfa austur að Atlantshafi og taka sér bólfestu í Nýja-Skotlandi, enda hafði stjórn þess fylkis erindreka sinn meðal Íslendinga í Kinmount, en Sigtryggur réð þeim fastlega frá því og sagði að Íslendingar myndi aldrei gjöra sig ánægða með það land, er aðrir þjóðflokkar hefði gengið fram hjá. Réð þeim heldur til að halda lengra vestur, inn í óbygð eða lítt bygð héruð. En þrátt fyrir mótmæli hans tók allstór hópur sig upp frá Kinmount, fluttist austur til Nýja-Skotlands og stofnaði þar nýlendu. En sú byggð hélzt að eins í nokkur ár. Þá tók hvert mannsbarn í Nýja-Skotlands-bygðinni sig upp og fylgdi

Ontario-Íslendingum eftir vestur í Rauðárdalinn — Manitoba og Norður-Dakota.

Um veturinn var allmargt barna og unglinga í Kinmount með Íslendingum, er tilsagnar þurfti að njóta í almennum fræðum og einkum tungumáli landsins. Árennilegt fanst þeim ekki að fara að stunda nám við innlenda alþýðuskóla, þar sem þeir skildu annaðhvort lítið eða ekki neitt í málinu og álitu, að tilsögn yrði þeim gagnslaus. Gekst þá Sigtryggur fyrir því, að stofnað yrði til kenslu um vorið. Kendi hann sjálfur tvo eða þrjá mánuði þeim, er taka vildu þátt í því nytsemdar-fyrirtæki, enska tungu og annað, er mönnum reið mest á að nema. Má nærri geta, að mönnum hafi fundist sú tilsögn koma í góðar þarfir.

Um þessar mundir var *Dufferin* lávarður, sem góðfrægur er orðinn með Íslendingum, bæði austan hafs og vestan, landstjóri í Kanada. Vissu menn, að hann var Íslendingum mjög hlyntur, þekti þjóð vora og sögu flestum betur og var það mjög áhugamál, að þeim, er leitað höfðu frá Íslandi til Kanada, gengi sem bezt að koma ár sinni fyrir borð. Kom nú þessum ísl. innflytjendum í Kinmount saman um, að þar mundi helzt að leita skjóls og athvarfs, sem hann væri, með að leita uppi heppilegan stað til varanlegrar bólfestu.

Maður er nefndur *John Taylor*. Hann hafði þegar nokkur kynni af Íslendingum og vildi þeim alt hið bezta, enda var hann ljúfmenni hið mesta og drengur bezti. Þeir Sigtryggur Jónasson og John Taylor leituðu nú til landstjóra með vankvæði þau, er á voru högum Íslendinga. Þótti þeim örvænt um, að Íslendingar myndi finna hentug lönd og geðfeld í austur-Kanada og að eini vegurinn væri að leita vestur í óbygðir, þar sem land var enn lítt kannað. Þegar í þá daga höfðu vitrir menn mikla trú á norð-

vesturhluta Kanada-veldis, þó almenningi manna væri landkostir þar lítt kunnir.

Málaleitan þessari tók Dufferin hið mannúðlegasta eins og vænta mátti og hét liðsinni sínu og stjórnarinnar. Var þá stofnað til sendifarar þeirrar, sem fræg er orðin í sögu Vestur-Íslendinga. Í henni voru upphaflega Sigtryggur Jónasson, Skafti Arason, og Einar Jónasson, ásamt John Taylor, er áður var nefndur. En síðar slógust þeir í förina, Sigurður Kristófersson og Kristján Jónsson, Björnssonar frá Héðinshöfða. Komu þeir til Winnipeg 16. júlí sumarið 1875.

All-rækilega skoðuðu þeir landið og leituðu fyrir sér á allar lundir að finna Íslendingum sem hentugast nýlendusvæði, þar sem nóg væri ölnbogarúm öllum, er koma kynnu til margra ára. Leizt þeim miklu betur á landkosti hér vestur en austur frá og gáfu landstjóra góða skýrslu um landið, er þeir hurfu austur aftur.

Vestur-strönd Winnipeg-vatns völdu þeir fyrir nýlendusvæði og færðu ýms rök fyrir því vali sínu. Þá var byrjað að leggja Kanada-kyrrahafsbrautina og var fastákveðið, að hún yrði lögð yfir Rauðá hjá vestur-Selkirk og þaðan norðvestur, þó síðar væri þeirri ráðagjörð breytt. Greiðfær vatnavegur var þá með fram allri strönd vatnsins upp ána, alla leið til Selkirk. Ef nú braut hefði verið þangað lögð eins og ráðgjört var, mátti heita, að væntanleg nýlenda niður með vatni ætti greiðar samgöngur við umheiminn, þegar frá byrjan.

Við vatnið var timbur nóg. Mikið er þar af espivið og greni, því ströndin er öll sérlega þykkum skógi vaxin. Nógur viður var þar til húsagjörðar og eldiviðar um óratíma, enda líkur til að selja mætti við verði all-háu, ef samgöngur yrði góðar, og gæti það orðið nýlendumönnum álitlegur atvinnuvegur. Fiskiveiði mikil var í vatninu,

svo óþrjótandi virtist, en Íslendingar flestir aldir upp við sjó og fiskiveiðum vanir frá barnæsku. Sýndust því líkur til, að þeim myndi notast veiðin betur en öðrum. Gæti hún orðið þeim með tíð og tíma auðsuppspretta mikil, þegar góður markaður væri kominn. En hlunnindi ómetanleg að hafa fiskinn að grípa til fyrstu árin, meðan bústofn var lítill, vistir ónógar og erfitt til aðdrátta.

Jarðvegur sýndist þeim þarna góður til væntanlegrar akuryrkju, þó láglent væri með köflum. Einnig voru þar engjar all-miklar, einkum nyrzt á þessu væntanlega nýlendusvæði, svo ekki virtist landið síður hentugt til kvikfjárræktar. En skipavegur hinn bezti meðfram strönd allri og Rauðá, sem er fljót mikið, er fellur norður í vatn, skipgeng alla leið til Selkirk, eins og þegar hefir verið bent á.

Af þessum ástæðum og ýmsum öðrum, sem hér yrði oflangt upp að telja, var vestur-strönd Winnipeg-vatns valin til væntanlegs nýlendusvæðis. Var strönd þessari þegar nafn gefið og Nýja Ísland kallað. Þótti það mátulega afskekt til þess Íslendingar gæti þar varðveitt þjóðerni sitt, án þess að hverfa þegar í úthaf innlendrar þjóðar.

Þegar haustið 1875 fluttist fyrsti hópur Íslendinga vestur undir forustu þeirra Taylor's og Friðjóns Friðrikssonar. Var það nálægt 300 manns.

Meðan sendimenn voru að skoða lönd vestur í óbygðum, komu fréttir all-ægilegar frá Íslandi um Dyngjufjallagos og öskufall á Austurlandi. Leit þá út fyrir, að blómlegar sveitir myndi leggjast í eyði, en fólk verða að flytja burt unnvörpum af þeim stöðum og leita sér annarra bústaða. Var þá við því búist, að sá voða atburður myndi bála upp hugi manna til burtflutnings af landi, því um þessar mundir vissu menn, að Ameríkuhugur var allsterkur orðinn í

mörgum sveitum, áður en þessar hörmungar bar að höndum.

Kanadastjórn, sem þegar hafði opin augu fyrir öllu, er verða mætti til aukinna innflutninga inn í landið, ásetur sér nú að styðja að fólksflutningum frá Íslandi. Það lá þeim mun beinna við, sem nú var búið að velja nýlendusvæði, þar sem hægt væri að koma fjölda fólks fyrir og senda það til um leið og það kæmi til lands.

Verður það þá úr, að stjórnin skorar á Sigtrygg Jónasson að takast ferð á hendur til Íslands í því skyni að leiðbeina fólki, er vestur vildi fara. Fór hann þá til Íslands haustið 1875 og sá um það fólk, er vestur fluttist næsta ár (1876), sem ekki var færra en 1400 manns.

Vorið 1876 gekk hann að eiga Rannveigu Ólafsdóttur Briem, systur síra Valdimars Briem og þeirra systkyna. Hún var þá með bróður sínum, síra Eggerti Briem á Höskuldsstöðum. En alist hafði hún upp með Pétri amtmanni Hafstein á Möðruvöllum í Hörgárdal og þar höfðu þau kynst. Um sumarið fluttust þau hjón bæði vestur með fólki þessu. Námu þau land nyrzt á nýlendusvæðinu neðarlega við svo kallað Íslendingafljót og kölluðu landnám sitt Möðruvöllu. Þar settust þau að haustið 1876 og bjuggu þar þangað til 1880.

Fyrsta árið var Sigtryggur í þjónustu stjórnarinnar við útbýting láns þess hins mikla, er Kanadastjórn lét þessari íslenzku nýlendu í té. Má nærri geta, að það hafi ekki vandalaust verk verið. Þeir, sem þjóð vora þekkja, vita, að margar hendur eru eru ávalt á lofti, þegar einhver styrkveiting er á ferðum. Vilja þá allir maka krókinn eins og gengur, enda var mörgum i þetta sinn vorkunn, því hagur manna var all-þröngur, en úrkostir fáir. Sá maður er enn eigi fæddur, er öllum getur þóknast, þegar svo er ástatt. Og þegar alt er athugað, myndi fáum hafa

farist þetta betur, þó misjafnlega væri um það dæmt og þakkir litlar.

Fólksfjöldi allmikill var nú til nýlendunnar kominn og nú lá það fyrir hendi að koma einhverju skipulagi á mannfélag þessara frumbyggja, svo þeir gæti samið sig að siðum mentaðra þjóða. Eitt fyrsta ætlunarverk Sigtryggs Jónassonar var nú að gangast fyrir því, að á kæmist bráðabirgðar-sveitarstjórn, meðan nýlendan var eins og fyrir utan landslög og rétt. Gekk þetta allgreiðlega og er nýlendumönnum til mikils sóma. Eftir sýsluskipunar-fyrirmynd Ontario-fylkis var sveitar-ráð kosið, eða eins konar sýslunefnd, til að annast hag nýlendunnar allan. Var Sigtryggur Jónasson kosinn forseti sveitarráðs þessa og var það lengst af meðan bráðabirgðarskipulag þetta var við lýði.

Fyrsta og helzta fyrirtæki, er nýlendubúar réðust í, og stórfyrirtæki mátti kalla, þegar litið var á efni og ástæður, var stofnan vikublaðsins *Framfara*. Til að hleypa því fyrirtæki af hlunnum varð að mynda hlutafélag. Gekst Sigtryggur Jónasson nú fyrir því, að slíkt hlutafélag yrði stofnað, lagði ríflega fé til, og bar kostnað allan, útgjöld og áhyggjur fullkomlega að sínum parti. Tók hann þegar við ritstjórn blaðsins og hafði hana á hendi, þangað til Halldór Briem tók við henni. Og þegar Halldór fór frá, tók Sigtryggur aftur við ritstjórn, því ekki vildi hann láta það fyrirtæki falla, fyrr en eigi væri annars kostur.

Að öðru leyti bjuggu þau hjón búi sínu á Möðruvöllum. Þótti það höfðingjasetur og gott til þeirra að koma, eins og ávalt síðan. Var þar fjörugur þáttur tekinn í nýlendumálum öllum. Gekst Sigtryggur fyrir skólakenslu fyrir ungmenni þar við fljótið og var það nauðsynjamál mikið. Lýðskólaskipan fylkisins náði enn auðvitað ekki

til nýlendunnar og urðu því einstaklingar að bindast samtökum með það án nokkurrar tilhlutunar af stjórnarinnar hálfu. En það, að uppvaxandi æskulýður lærði mál landsins, var brýnasta skilyrði allra framfara. Um eldra fólk var svo að orði komist, að það væri mállaust, af því það kunni ekki að mæla máli landsins. Lá öllum í augum uppi, hvílík óhæfa það var, ef börnin væri látin vaxa svo upp, aö þau yrði mállaus líka. Kenslufyrirtæki þetta mæltist því vel fyrir, þó líklega hafi það verið af vanefnum, eins og ekki er að furða.

Brátt fór að brydda á óánægju með nýlendumönnum, enda dundu yfir þá harmkvæli allmikil fyrstu árin. Bóluveturinn alræmda sló að þeim óhug miklum, sem ekki var furða, því þá átti margur um sárt að binda. Landið reyndist miklu lægra og votlendara en menn höfðu gjört sér í hugarlund, svo fólk varð að sumri til að lifa við vosbúð og vaðal. Þegar árið 1879 fóru ýmsir að rífa sig upp og leita fyrir sér annars staðar, þar sem betri væri landkostir. Árið eftir var burtflutningur almennur.

Allan þenna tíma bjuggu þau hjón, Sigtryggur Jónasson og kona hans, búi sínu á Möðruvöllum og sátu þá fastast, þegar flestir töluðu um burtflutning. Hann hafði tröllatrú á framtíð nýlendunnar, þegar aðra bilaði og þeir sneru baki við. Þó erfitt gengi, var hann of fastlyndur maður til þess að gefast upp fyr en í fulla hnefa.

Haustið 1880 keyptu þeir Friðjón Friðriksson og Sigtryggur gufubátinn *Victoria*, sem þá var spánnýr, og kostaði hann ekki minna en 4000 dali. Ætluðu þeir hann til alls konar flutninga um vatnið. Síðar tóku þeir Árna Friðriksson, kaupmann í Winnipeg, inn í félagið. Létu þeir þá gjöra barða tvo allmikla, fluttu svo sagaðan við til húsagjörðar, varning, alls konar flutning, og farþega. Kostuðu barðar þessir ekki minna en 3500 dali,

svo hér var býsna mlklu fé til kostað eftir ástæðum. Var alls konar varningi hlaðið á barðana, en gufubáturinn látinn draga.

Veturinn 1881 tóku þeir félagar, Sigtryggur og Friðjón, að koma upp sögunarmylnu, sem kostaði um 12000 dali. Tóku þeir þáí félag með sér þýzk-amerískan mann, Osenbrugge að nafni. Söguðu þeir á sumrum eina til tvær miljónir feta af algengum efnivið. Urðu þeir að leggja meira og meira fé í fyrirtækið, eftir því sem þeir höfðu meira um sig.

Svo skiftu þeir félagar störfum með sér, að Sigtryggur stóð fyrir bátsferðum öllum og flutningum og varð því skipstjóri. Enda hefir hann fram að síðustu tíð verið af flestum nefndur ,,kapteinn Jónasson". Friðjón stýrði aftur mylnunni og sagði fyrir verkum heima við. Framan af var fyrirtækjum þessum haldið út án þess félagsskapurinn væri lögum bundinn.

En árið 1890 var myndað reglulegt hlutafélag lögbundið, sem þó að eins 7 menn voru í. Þurfti það nú á stærra gufuskipi að halda. Þá réðst félag þetta í að láta nýtt gufuskip gjöra, eitt hið stærsta, sem verið hafði á vatninu. Nefndu þeir það ,,Aurora" eftir dóttur Friðjóns, sem nú er frú T. H. Johnson í Winnipeg. Kostaði það ekki minna en 22 þúsundir dala. Áður höfðu þeir félagar orðið að taka gufubát á leigu auk bátsins, er þeir áttu sjálfir.

Sumarið 1881 flutti Sigtryggur ásamt konu sinni frá Nýja Íslandi og hafa þau ekki átt þar heima síðan. Settust þau fyrst að í Winnipeg og voru þar þangað til árið eftir (1882). Þá fluttust þau til Selkirk og voru þar þangað til haustið 1887, að þau tóku sér bólfestu í Winnipeg, þar sem heimili þeirra hefir síðan ávalt verið.

Félagið, er Sigtryggur Jónasson hafði lagt svo mikla

rækt við og eytt fé og kröftum fyrir, hætti störfum 1890. Hafði það þá staðið lengur en nokkurt félag annað, er líka sýslu hafði rekið við vatnið, en hefði þá orðið að auka stofnfé að miklum mun, ef það hefði viljað halda lengur áfram.

Næstu ár á eftir (1890—'93) fekst hann við landsölu, lífsábyrgð og ýmislegt annað. Vorið 1893 tókst hann ferð á hendur til Íslands fyrir Manitóbastjórn til að sjá um fólksflutninga það ár frá Íslandi. Umboðsmenn stjórnanna Baldvin L. Baldvinsson og Sigurður Christopherson, og umboðsmaður gufuskipafélags eins, Sveinn Brynjólfsson, höfðu tilkynt, að fólk, óvenjulega margt, væri væntanlegt frá Íslandi þetta sumar. Nú fer Sigtryggur Jónasson heimleiðis í umboði Manitobastjórnar og með ötulli forgöngu sinni kemur hann til leiðar beinum flutningi frá Seyðisfirði til Quebec. Aldrei hefir jafn-fljót ferð gjör verið frá Íslandi til Kanada, því skipið var ekki nema 6 daga á leiðinni. Myndi ekki öllum hafa tekist að koma þessu til leiðar, því torvelt mjög er að fá ensk fólksflutninga-gufuskip að fara til Íslands, þar sem hafnir eru ókunnar, enda nær vátrygging skipa ekki þangað.

En þessi ferð hans heim varð all-merk af fleiri ástæðum. Hann var sjálfur að hugsa um varanlegar samgöngubætur bæði milli Íslands og annarra landa og á Íslandi sjálfu. Árið eftir (1904) fór hann aftur til Íslands í útflutnings-erindum. Var þá að hans tilstilli lagt fyrir alþingi eitt djarfmannlegasta frumvarp, er lagt hefir verið fyrir nokkurt alþingi. Hafði hann á Englandi talað við ýmsa merka menn um samgöngumál Íslands og lagt ráð saman um stórkostlegar nmbætur. Einkum hafði maður einn í Liverpool á Englandi lagt hug allmikinn á mál þetta. Hét hann *David Wilson*, og var umsjónarmaður fólksflutninga gufuskipafélags eins þar. Hafði hann um-

boð af hendi nokkurra enskra manna viðvíkjandi þessu máli, ef nauðsynleg löggjöf fengist og nokkurir málsmetandi menn á Íslandi væri því sinnandi. Þrjá slíka menn tókst Sigtryggi að finna í Reykjavík: Jón Þórarinsson, kennara við Flensborgarskólann í Hafnarfirði, alþingismann, síra Jens Pálsson frá Útskálum, sem þá var líka alþingismaður, og Þorgrím Guðmundsen, hinn alkunna fylgdarmann ferðamanna um Ísland.

Frumvarp þetta var þá lagt fyrir alþingi og skyldu fyrstu stjórnendur félagsins vera: David Wilson á Englandi, Sigtryggur Jónasson í Winnnipeg, Jón Þórarinsson, síra Jens Pálsson og Þorgrímur Guðmundsen. Frumvarpið fór fram á, að komið væri á fót, hálfsmánaðarlegum gufuskipaferðum milli borgarinnar Liverpool á Englandi og Reykjavíkur. Á öllum gufuskipum, er gengi á milli, skyldi kæliklefi hafður, þar sem hægt væri að koma glænýjum fiski alveg óskemdum frá Íslandi á brezkan markað. Í sambandi við millilandaferðir þessar, skyldi tveir minni gufubátar látnir ganga kring um strendur landsins, annar austur um land, en hinn vestur um land. Auk þessa var um einkaleyfi beðið til að leggja járnbraut frá Reykjavík austur að Þjórsá og aðra af Akranesi og norður til Akureyrar.

Það má nærri geta, að mönnum hafi tíðrætt orðið um nýmæli þetta á Íslandi. Öðru eins voru menn ekki vanir. Voru þeir þá nógir, er staðhæfðu, að þetta væri ekkert annað en vesturfarabrella, sem eigi væri takandi til greina. Samt sem áður náði frumvarp þetta samþykki neðri deildar alþingis. En er til efri deildar kom, var það látið stranda.

Af einum mikilhæfum þingmanni var þó það álit upp kveðið, að þetta frumvarp myndi kenna þjóðinni að hugsa djarfmannlegar en áður. Hér eftir myndi alþingi fá

stærri framfaramál til meðferðar en áður hefði átt sér stað Þykja þau orð hafa ræzt, því síðan hefir hvert stórmálið á fætur öðru verið lagt fyrir alþingi og ýms náð fram að ganga.

Frumvarp þetta varð til þess að gufuskipafélagið danska gjörði tilboð miklu aðgengilegri en áður, bæði um millilandaferðir og strandferðir. Reglulegar strandferðir austur og vestur um land, eins og farið var fram á í frumvarpinu, komust nú á og millilandaferðir urðu miklu tíðari en áður. Dönum hefir ekki litist á blikuna, ef Englendingar og Ameríkumenn færi að verða keppinautar þeirra. Þó frumvarpið væri eyðilagt í efri deild, virtist þó árangurinn af þeim umræðum, sem út af því spunnust, hafa verið nokkur.

Nú virðist stjórn Íslands hafa í hug að gangast fyrir því, að járnbraut verði lögð frá Reykjavík austur til Þjórsár, eins og frumvarpið fór fram á. Hafa landmælingar verið gjörðar að tilhlutan stjórnarinnar á þessu svæði síðastliðið sumar, í þeim tilgangi að öllum líkindum að undirbúa frumvarp, er lagt verði fyrir næsta þing um járnbrautarlagning.

Góð hugsan heldur leiðar sinnar þrátt fyrir alla farartálma. Engum er unt að hefta för hennar. Þó hún sé landræk gjör í bili og verði að fara huldu höfði um stundarsakir, ber hún aftur að dyrum og ríður til þings með fögru föruneyti á sínum tíma. Ef til vill mætti segja ferðasögu fleiri slíkra hugsana héðan að vestan, er fósturjörð vorri hafa að góðu haldi komið. Vonum vér, að þær verði fleiri og fleiri. En minst er um ættartölur vert og ættfæring. Hitt er mest um vert, að haldgóðar hugsanir, er líklegar sé til að vinna bug á öllum hindrunum og fordómum, er mennirnir í blindni leggja á leið þeirra, komi

fram og hafi á sér það höfðings-mót,er koma mætti hugsunarhætti þjóðar vorrar úr kreppunni og kenna henni að láta sér ekki stórræðin fyrir brjósti brenna. Samt verður það ávalt hugðnæmt efni, að gjöra sér grein fyrir, hver það var, sem hugsaði þá hugsan, er síðar varð til hamingju og velferðar.

Þegar Sigtryggur Jónasson kom heim úrferð þessari, var Einar Hjörleifsson, sem hingað til hafði verið ritstjóri Lögbergs, í þann veginn að hverfa heimleiðis til fósturjarðar sinnar. Þegar sú fyrirætlan varð að framkvæmd og nýjan ritstjóra varð að ráða, tók þá Sigtryggur við ritstjórn blaðsins og hafði hana á hendi, þangað til 18. júlí 1901, eða hálft sjöunda ár.

Flestum kom saman um, að honum færist sú ritstjórn sérlega myndarlega. Meðan ,,Framfari var við lýði, hafði öllum orðið ljóst, að Sigtryggur Jónasson var töluverðum ritstjóra hæfileikum gæddum, enda hefir hann ýmsa þá kosti til að bera, sem ritstjóra eru nauðsynlegir. Hann er manna bezt að sér um landsmál og landshagi alla. Hann er maður víðsýnn og bjartsýnn um leið og ann alls konar framförum, bæði andlegum og verklegum. Í leikmannahópi Vestur-Íslendinga er hann einna fróðastur og hefir aflað sér einna haldbeztrar þekkingar. Hann gengur með dugnaði og ötulleik að hverjum hlut og hefir verið maður sívinnandi og síhugsandi alla æfi. Hann er laus við smámunalegan sveitarríg allan. Lesendum Lögbergs í Bandaríkjunum þótti mjög vænt um blaðið meðan hann var ritstjóri þess, fyrir það hve vingjarnlega og hlýlega var ritað um mál manna þar, bæði alríkismál og einstaklingsmál, engu síður en sömu mál í Kanada.

Nokkuð þótti hann stundum stórhöggur í garð andstæðinga og líkur Þór, þegar hann fór í Austurveg að berja á tröllum. En ávalt fundu bæði vinir og andstæð-

ingar, að þar var góður drengur á bak við og ekki langrækinn né hefnigjarn, þótt honum rynni í skap í bili. Enda eru fáir, sem fleiri menn eiga að vinum víðs vegar um íslenzkar bygðir, en hann. Hefir það verið svo frá upphafi og einlægt aukist, eftir því sem hann hefir haft meiri afskifti af málum manna. Og aldrei hefir hann fleiri vini átt, en eftir að hann var ritstjóri. Enda eru það ekki flokksbræður einir, sem bera virðingu fyrir honum og meta hann mikils, heldur einnig andstæðingar.

Í janúar 1896 bauð Sigtryggur sig fram til þingsetu fyrir St. Andrew's kjördæmi, sem Nýja-Ísland var einn hluti af. Lauk þeirri kosningabaráttu svo, að hann var kosinn með 78 atkvæða meiri hluta á móti Baldvin L. Baldvinssyni. Mun þess lengi getið í sögu Vestur-Íslendinga, að hann varð fyrstur úr hópi þeirra til að skipa þingmannssæti í Kanada. Enda fórst honum það sérlega myndarlega aðöllu og þótti hann sýna það á þingi, að hann hafði þekking á landsmálum og kunnugleika um fram margan innlendan þingmann.

Við næstu kosningar til þings bauð hann sig aftur fram í Gimli-kjördæmi. En þá var hann svo óheppinn, að kosning í hans kjördæmi var látin fram fara viku síðar en í öðrum. En frjálslyndi flokkurinn í fylkinu varð undir við aðalkosningar. Og þegar sú frétt flaug eins og herör út um kjördæmi Sigtryggs, stóð hann auðvitað miklu ver að vígi, því ávalt eru ýmsir, sem helzt vilja þann flokk fylla, er sigur ber úr býtum. En munurinn var lítill. Hann varð undir með 8 atkvæða mun, og Baldvin L. Baldvinsson þeim mun hlutskarpari.

Á þingmensku árum sínum gleymdi Sigtryggur ekki Nýja Íslandi. Það var enn eins konar óskabarn hans. Tók hann þá að vinna að því, að Manitobastjórn legði

fram fé, til þess járnbraut yrði lögð til Nýja Íslands. Fyrir milligöngu hans lofaði stjórnin að veita Kanada Kyrrahafsbrautafélaginu 1750 dala styrk fyrir hverja mílu brautar, er hún legði frá Teulon til Gimli.

En áður framkvæmd yrði úr brautarlagning þessari, fór flokkur hans frá völdum, eins og fyrr er sagt. Sú stjórn, sem næst kom til valda, tók aftur loforð þetta um styrk til lagningar brautar til Gimli. En þó útlit væri þá fremur dapurt, var Sigtryggur ekki af baki dottinn með að ýta velferðarmáli þessu áfram.

Á meðan hann var ritstjóri Lögbergs, hafði hann með ráði og dáð stutt kunningja sinn *John A. Mcdonell* til kosningar til sambandsþings Kanada í Lisgar-kjördæmi, er Nýja-Ísland var einn hluti af. Við þær kosningar náði frjálslyndi flokkurinn völdum í Ottawa (1896). Fyrir áeggjan Sigtryggs tók Macdonell þá að vinna að því, að Kanada Kyrrahafsfélagið legði járnbraut frá Selkirk til Nýja-Íslands.

Þegar Macdonell hætti þingmensku var braut þessi kominn að suðurtakmörkum nýlendunnar, og veitti sambandsstjórnin félaginu 3,200 dala styrk á hverja mílu brautar frá Selkirk og norður þangað.

Því næst studdi Sigtryggur þann mann til þingmensku kosningar í sama kjördæmi, er McCreary hét; þá nefndist kjördæmið Selkirk-kjördæmi, og var McCreary kosinn. Hvatti nú Sigtryggur hann alt, er hann mátti, til að ljá því eindregið fylgi, að járnbraut þessari yrði haldið áfram norður um Nýja Ísland, fyrst til Gimli-þorps og síðan norður að Íslendingafljóti. Fekk McCreary því framgengt, að félaginu var heitið sama styrk, 3,200 dölum á hverja mílu norður að Íslendingafljóti.

Til allrar óhamingju fyrir bráð og heppileg úrslit málsins, féll McCreary í valinn; hann lézt í maí 1903 eða áður

en byrjað var á framlenging brautarinnar. En með ötulum tilstyrk Sigtryggs var sá maður, er *S. J. Jackson* heitir, til þess korinn að skipa hið auða rúm á þingmanna-bekknum. En nú vill félagið breyta samningum og leggja brautina sex mílur fyrir vestan Gimli-þorp.

Varð út úr þessu þjark mikið, eins og geta má nærri. En í samlögum við Jackson kom Sigtryggur því til leiðar, að félagið lofaði að leggja brautina frá Winnipeg Beach og alla leið til Gimli, og aðra braut frá Teulon norður að Íslendingafljóti.

Eins og kunnugt er, er brautin til Gimli nú fullgjör, en hin frá Teulon komin svo langt á veg,að allar líkur eru til að hún verði kominn norður að Íslendingafljóti að ári liðnu. Auk þess lofaði félagið þeim Sigtryggi og Jackson að tengja síðar Gimli brautina við Íslendingafljóts brautina, ef það fengi sama styrk til þess á mílu hverja og það fær á hina brautarkaflana.

Enginn, sem til þekkir, getur neitað því, að Sigtryggur hefir áhrif haft, bæði mikil og góð, á heppileg úrslit þessa mikla velferðarmáls fyrir Nýja Ísland. Hvort honum verður þakkað starf sitt í sambandi við þessi járnbrautarmál eins og vert er, verður framtíðin að sýna.

Þegar Sigtryggur lagði ritstjórn Lögbergs niður,fekk hann embætti eitt hjá Kanadastjórn,sem er í því innifalið að hafa umsjón og eftirlit með heimilisréttar-löndum stjórnarinnar (*Homestead Inspector*). Það embætti hafði hann á hendi þangað til í júní 1903. Þá sagði hann því af sér og hafði í huga að gefa kost á sér til þings. Þá starfaði hann í þarfir flokks síns að því að koma skipulagi á mál hans (*Political Organizer*) þangað til 1904. Tók hann þá aftur við fyrra embætti sínu fyrir Kanadastjórn og gengdi því þangað til seint í maí síðastliðið vor. Á því embætti mun hann hafa verið orðinn þreyttur, þar

sem því fylgdu stöðug ferðalög út um óbygðir eða svæði, er í þann veginn voru að byggjast.

En á þessum ferðalögum út um land meðal bænda þroskaðist sú hugmynd betur og betur hjá honum, að stofna fjáraflafélag, til að hjálpa bændum til að fá hærra verð fyrir gripi sína. Nautgripaverzlan hefir verið fremur með ólagi um undanfarin ár og bændur fengið verð mikils til of lágt fyrir nautpening á fæti. Fyrir þessum félagsskap hefir hann verið að gangast síðastliðið haust og gengið það ágætlega. Hafa margir Íslendingar lofast til að leggja fram fé allmikið í þessu augnamiði, enda á stofnfé ekki að vera minna en 250 þúsundir dala. Ætlar félagið sér að kaupa gripi á fæti, naut, svín og sauðfé, til slátrunar og selja svo kjötið hinum smærri slátrurum. Slátrunarhús (*abettoir*) hefir þegar verið keypt vestarlega á Portagi Ave. fyrir 23 þúsundir.

Á þessu sézt, að stórhugur Sigtryggs er ekki bilaður enn, enda er hann enn ekki nema hálfsextugur maður og við ágæta heilsu. Er vonandi að fjáraflafyrirtæki þetta gangi vel og verði öllum hlutaðeigendum til gagns og sóma.

Ekki megum vér svo við æfilýsing þessa skiljast, að vér ekki með fám orðum minnumst konu Sigtryggs Jónassonar. Flestum er kunnugt að kona hans hefir lengi verið talin fremst vestur-íslenzkra kvenna. Enda hefir hún flesta ágætustu kosti ættar sinnar. Samt er hún fremur dul í skapi og hefir ávalt dregið sig sem allra-mest í hlé, því svo er lund hennar varið. Marga hefir hún vini eignast fyrir því, og telja þeir það flestir hátíð að koma heim til hennar og njóta þeirrar ununar að eiga tal við hana, þar sem hún situr oft ein með bók í hönd og hugsar fagrar hugsanir. Þeim hjónum hefir eigi orðið barna auðið, en fósturson eiga þau einn, sem ber nafn

þeirra. En þegar aðrar konur hafa leikið sér að gullum sínum, hefir hún leikið sér að hugsunum. Og yfir þeim er ávalt fegurð og birta, svo sól er í huga þess og hlýindi í hjarta, er þaðan hverfur heim til sín. Mun lengi verða eftir henni munað sem viturri konu og góðri, sem gjört hefir líf flestra þeirra, er henni hafa kynst að einhverju leyti auðugra.

F. J. Bergmann.



## EDISON.



Thomas Alva Edison.

FLESTIR eða allir lesendur Almanaksins hafa vafalaust heyrt getið um Thomas Alva Edison, rafmagns - fræðinginn og uppfundningamanninn nafntogaða, sem hefur aðsetur sitt í Menloe (Llewellen) Park í New Jersey-ríki, í Bandaríkjum Norður-Ameríku, en fæstum mun kunnugt um, hverskonar maður Edison er að mörgu leyti, hvernig hann er útlits, hvernig lyndisfar hans er, hverjar skoðanir hans eru viðvíkjandi landsmálum, o. s. frv. Það vill nú svo vel til, að nýlega kom út í einu af helztu tímaritum Bandaríkjanna mjög fróðleg ritgjörð, með myndum, eftir merkan höfund, sem að mörgu

leyti kastar nýju ljósi á Edison, ekki einasta sem vísindamann og uppfundningamann, heldur sem mann og borgara í Bandaríkjunum. Höfundur ritgjörðarinnar (Mr. Creelmann) heimsótti Mr. Edison í sumar er leið, og tekur upp í ritgjörðina langar klausur, sem hann þykist hafa orðréttar eftir honum, við það tækifæri. Ritgjörðin er alt of löng til að þýða hana og prenta alla í Almanakinu, svo eg drep hér að eins á nokkur atriði hennar, í von um að mörgum lesendum Almanaksins þyki nokkur fróðleikur í að lesa þann útdrátt. En að öðru leyti er ritgjörð þessi um Edison frumsamin.

Edison fæddist í smáþorpi einu í Ohio-ríkinu árið 1847, og er því nú nær sextugur að aldri. Faðir hans var af hollenzkum ættum, en móðir hans af skozkum. Öll skólamentan, er hann fekk á æfinni, var sú, að hann gekk tæpar 8 vikur á alþýðu-barnaskóla í æsku. En hann var fjarskalega hneigðnr fyrir bóka-lestur, og móðir hans uppfræddi hann þess utan alt sem hún gat. Hún dó þegar Edison var 15 ára. Áður en hann var 12 ára gamall, hafði hann lesið verk Hume's og Gibbon's og margt fleira. Hann var mjög gefinn fyrir efnafræði, og svo þyrstur var hann í allan fróðleik, að hann hafði ásett sér að lesa allar merkustu bækurnar í bókasafni. Detroit-borgar, í Michigan-ríki, efur að hann fluttist þangað sem unglingur. Með þetta takmark fyrir augum hafði hann lesið Newton's *Principia*, Ure's *Dictionary* vísindanna, og til smekkbætis Burton's *Anatomy of Melancholy* áður en hann gerðist blaða- og bókasali á lestum Grand Trunk járnbrautarfélagsins (canadiska) milli Detroit, Port Huron o. s. frv. Þá fekk hann tækifæri til að lesa um margbreyttari efni. En fíkn hans í efnafræði loddi við hann, svo hann fór að gjöra efnafræðislegar tilraunir í tómum vagni í einni lestinni. Þá tókst svo illa til, að krukka með sýru í sprakk

og kveikti í vagninum, svo nærri lá að öll lestin væri í voða. Fyrir þessa sök fleygði lestarstjórinn Edison og öllu dóti hans út úr lestinni, og gaf honum að skilnaði þvílíkan löðrung á annað eyrað, að í því gróf og hann misti heyrn á því, en heyrnin deyfðist á hinu. Edison hefir því verið heyrnardaufur ætíð síðan, og hefir það komið sér mjög illa, einkum við tilraunir hans að umbæta telefóninn og fónógrafinn. — Hið næsta fyrirtæki unglingsins Edison's var að útvega sér dálítið af letri og gefa út ofurlítinn fréttablaðs-snepil á Grand Trunk lestinni, er hann nefndi „The Grand Trunk Herald". Á ferðalögum sínum með járnbrautarlestunum sem fréttablaða-sali rak hann sig á, hve þýðingarmikill telegrafinn var og kyntist ýmsum telegrafistum. Hann ásetti sér því að læra telegraf-listina; brjóstgóður vagnstöðva-yfirmaður nokkur bauð honum aðstoð sína í þessu, og á hverju kveldi kom Edison til hans, eftir langt dagsverk, og æfði sig í listinni. Með stakri elju og tilsögn yfirmannsins tókst honum að læra telegraf-listina á hér um bil 4 mánuðum, og varð síðan einhver hinn snjallasti maður í henni á þeim slóðum. Hann var um hríð telegrafisti hjá Grand Trunk járnbrautarfélaginu í Port Huron í Michigan-ríki, í Stratford í Ontario-fylki, Canada, og svo í Adrían í Michigan-ríki. Þar setti hann á stofn dálítið verkstæði, til að gera við telegraf-áhöld og búa til nýstárleg áhöld. Frá síðastnefndum bæ flutti hann til Indianapolis, höfuðstaðarins í Indiana-ríki, og þar fann hann upp hinn svonefnda *automatic repeater*, verkfæri, sem mannlaust sendir skeyti frá einum telegraf-þræði til annars. Þaðan ranglaði Edison til borgarinnar Cincinnati í Ohio-ríki, Louisville í Kentucky, Memphis í Tennessee, og New Orleans í Lousiana-ríki, en þaðan fór hann aftur til baka til Cincinnati. Þá var hann tvítugur að aldri og fór að verða kunnur sem heppinn uppfundn-

ingamaður. En brátt var hann kallaður til Boston í Massachusetts-ríki, því hann var orðinn kunnur sem einn hinn allra-snjallasti telegrafisti í landinu. Þar setti hann á stofn tilrauna-verkstofu, og þar fann hann upp hinn svonefnda *duplex telegraf*, vél, sem gerði mögulegt að senda tvö skeyti í einu, sitt í hverja átt, með sama þræðinum. Hann reyndi þessa nýju uppfundningu sína milli Boston og Rochester í New York-ríki árið 1870, en tilraunin mishepnaðist í það skifti, og kennir Edison það klaufaskap telegrafistans við Rochester-endann á þræðinum.

Þá gekk Edison í þjónustu hins svonefnda Gold Indicator-félags í New York, og varð síðan yfirumsjónarmaður telegraf-verkfæra þess. Á meðan Edison var hjá nefndu félagi, fann hann upp ýmislegt nýtt og bætti eldri verkfæri. Og um sömu mundir setti hann á stofn verksmiðju í Newark, í New Jersey-ríki, til þess að smíða hinar nýju vélar sínar. Þar hafði hann um 300 manns í þjónustu sinni, og tók þetta starf upp svo mikinn tíma, að hann gekk úr þjónustu Gold Indicator-félagsins. Árið 1876 setti hann á stofn dálitla tilrauna-verkstofu í Menlo Park, meðfram Pennsylvania-járnbrautinni, 24 mílur frá New York-borg, og hefir þessi stofnun dafnað svo, að hún er nú orðin allmikið þorp út af fyrir sig, og síðan byrjun ársins 1879 hefir Menloe Park verið nokkurs konar Mecca allra þeirra, er áhuga hafa haft fyrir að fullkomna rafmagns-lýsingu sem allra mest. — Allar uppfundningar Edisons eru praktiskar og gagnlegar til daglegs brúks, og ná yfir ólíkustu svæði, t. d. frá *motor* þeim, er hreifir saumavélar til *microtasimeter* hans, er mælir hinar allra minstu og annars ómerkjanlegu breytingar hita og kulda, og notaður hefir verið til að rannsaka ljós-hringinn, sem er í kringum sólina og stjörnurnar. Uppfundningar

Edisons, sem hann hefir fengið einkaleyfi á, eru yfir 400 að tölu. Hinar merkustu þeirra eru *carbon*-telefóninn, fónógrafinn, rafmagns eldsbruna-kallið, loft-hljóðberinn, hljóðaukinn (*megafon*), hljóðmælirinn, rafmagnspenninn, en einkum hin svonefnda *quadruplex* telegraf-aðferð, sem gjörir manni mögulegt að senda 4 skeyti í senn, eftir sama þræðinum, í gagnstæðar áttir án hins minsta ruglings. Edison hefir í nokkur undanfarin ár verið að fullkomna ódýrt rafmagns *storage-battery* (vél til að geyma rafmagn í og nota sem hreyfiafl), og segja síðustu fréttir að honum hafi tekist að fullkomna vélina svo, að *motor*-vagnar, er nú kosta 1200 dollara og yfir, muni aðeins kosta 200 til 250 dollara. Hann hefir varið fjarska miklum tíma og ógrynni fjár í að fullkomna þetta *storage-battery* sitt, enda verður það vafalaust hin þýðingarmesta og þarfasta uppfundning hans fram að þessum tíma, því auk þess sem þetta *battery* verður notað í *motor*-vagna, þá verður það einnig notað í strætisvagna er renna á stálteinum. Að *storage-batteries* hafa ekki hingað til verið notuð í *motor*-vagna og strætisvagna kemur til af því, að þau með gamla sniðinu hafa verið langtum of þung og kostnaðarsöm í samanburði við aflið, er úr þeim hefir fengist.

Enginn amerikanskur maður er jafn víða þektur og Edison, og enginn nú lifandi maður hefir lagt meiri skerf til framfara mannkynsins. Biljónir dollara hafa verið lagðar í fyrirtæki, er hugvit hans hefir gert mögulegt að koma í framkvæmd, og miljónir manna hafa atvinnu við þessi fyrirtæki, sem útbreidd eru til endimarka jarðarinnar. Svo nafntogaður er Edison, og svo örugt sæti á hann meðal hinna fáu manna, er hafa breytt menningarástandi heimsins án blóðsúthellinga, að maður nærri gleymir því, að hann ekki er töframaður í æfintýri, heldur

ötull amerikanskur borgari, sem enn vinnur nótt og dag að því að leysa aðalráðgátur verklegra vísinda, og stanzar einstöku sinnum til að undra sig yfir, hvað hafi komið fyrir landa sína, að þeir skuli hlusta á hrakspár og örvæntingar-óp nátthrafnanna mitt í velgengni og framförum.

Í samtali sínu við Mr. Creelman, sem að framan er getið, fórust Mr. Edison orð þannig: ,,Þó eg ætti líf mitt að leysa get eg ekki skilið, hvers vegna nokkur maður í Bandaríkjunum skyldi ímynda sér, að fátækur maður hafi nú sem stendur minna tækifæri til að komast áfram, en áður. Það er þvert á móti; á því er enginn vafi. Eg vildi miklu heldur byrja upp á nýtt sem fátækur piltur, heldur en að byrja aftur undir sömu kringumstæðum og eg byrjaði sem unglingur. Tækifæri fyrir fátækan pilt, eða fátækan mann, eru fleiri og meiri þann dag í dag, en þau voru í ungdæmi mínu. Menn með sérstakri gáfu til að koma á samvinnu hafa dregið mikinn höfuðstól saman í eitt, komið nákvæmri reglu á starfsemina, komið ár sinni svo fyrir borð, að ekkert efni fyrir iðnað og engin vinna fer að forgörðum, eins og áður vildi brenna við, og hafa sameinað framleiðslu-aflið þannig, að það er notað á skynsamlegri og mannúðlegri hátt ár frá ári''.

Mr. Edison sagði ennfremur:

,,Heimurinn hrópar nú í sífellu eftir greindum mönnum. Hann leitar þeirra hvarvetna. Dyr tækifæranna eru nú opnari en nokkuru sinni áður fyrir menn sem hafa þó ekki sé nema lítið brot af greind fyrir ofan það, er útheimtist til að vinna daglega vinnu með höndunum. Það er sama hvort maður er fátækur eða ríkur, hver hörundslitur hans, trúarbrögð eða uppruni er, þá hefir hann betra tækifæri nú en hann hafði fyrir einum mansaldri síðan, ef hann að eins hefir greind til að bera og notar hana við verk

sitt, hvað sem það er. Þetta er gullöld fyrir menn með gáfur, jafnvel meðalgáfur, og eg vildi miklu heldur eiga undir því að byrja nú baráttu fyrir lífinu vinalaus og peningalaus, en að vera horfinn til baka þó ekki væri nema 20 ár. Heimurinn er alt af að verða betri og sterkari, hvötin til að hugsa er að verða því nær ómótstæðileg í sérhverri grein af starfi mannanna. Þetta lyftir mannkyninu hærra og hærra. Eftir því sem vísindin eru meira notuð við iðnaðinn, þess hærra verður endurgjald gáfnanna, og þann dag í dag eru í púsundum af verksmiðjum *uppástungna-kassar*, sem verkamenn eru beðnir að stinga í miðum með nýjum hugmyndum árituðum, er þeir kunna að hafa fengið við vinnu sína, — svo hungraðir eru þeir, sem standa fyrir iðnaðar-stofnunum, að færa þá menn upp, sem hafa hæfileika til að bera''.

Edison leggur ef til vill meira á sig en nokkur annar maður, sem nú er uppi, enda er líkamsbygging hans sterk, þrátt fyrir að hann er nær sextugur að aldri. Ef heilsa hans hefði ekki látið það eftir að hann gat erfiðað í fimm sólarhringa samfleytt, án svefns og næringarlítið, þá er eins líklegt að hið svonefnda *incandescent* rafmagns-ljós væri aðeins verkstofu-leikfang, í staðinn fyrir að vera notað til lýslngar um allan heim. Sama má segja um flestallar aðrar hinar miklu og merkilegu uppfundningar Edisons, að þær eru ávöxtur af því nær ótrúlegu vinnuþreki. — Edison er stór maður vexti, bringubreiður og nokkuð feitlaginn. Hann er mjög sparneytinn, og þrífst ágætlega á fæðu sem margur verkamaðurinn mundi álíta sultarfæðu. Höfuðið er stórt og svarar sér vel að öllu leyti. Hárið er orðið stálgrátt, og því nær hvítt yfir hinu gáfulega enni. Andlitið er breitt, sællegt og hrukkulaust, en sérlega tilfinninganæmt, og græskulaus gamansemi skín út úr því. Munnurinn er allstór, og þótt munnvikin sé

nokkuð niðursígin, þá leikur bros á vörunum og munnurinn lýsir hugrekki. Augun eru grá að lit, en fögur og djúp; þau eru sífelt vingjarnleg, og einlægnin skín út úr þeim.

Edison er mjög sár á tíma sínum, því þótt hann hafi afkastað miklu, þá finst honum að hann eigi mikið verk óunnið enn. Hann þykist sjá fram á, að vísindin eigi enn eftir að opna fyrir mannkyninu óumræðilegan undraheim. Um þetta efni fórust honum orð þannig:

,,Við erum nú að þreifa fyrir okkur á takmörkum nýs og merkilegs tímabils í sögunni. Mig skyldi ekki undra þótt eg vaknaði upp einhvern morguninn og fengi að vita, að einhver einn maður, eða hópur af hinum 300,000 vísindamönnum, sem eru að gjöra tilraunir um allan heim, hafi uppgötvað leyndardóminn, hvernig rafmagnið verði notað beinlínis, og þannig sé byrjuð ný bylting í starfsemi mannkynsins. Þetta er mögulegt. Þetta verður gjört; og eg býst við að sjá þetta framkvæmt áður en eg dey. Einn maður uppgötvar part af því, sem menn eru að leita að, í einum hluta heimsins, og það leiðir til þess, að einhver maður á öðrum stað í heiminum bætir við það, sem hinn hafði komist að; af þessu leiðir, að áður en langt um líður verður heill hópur af vísindamönnum kominn á hina réttu leið. Svo verður það kunngjört út um allan heim, einn góðan veðurdag, að rafafl megi fá úr kolum beina leið. Þegar búið er að uppgötva þetta, þá fleygja menn burt gufukatlinum og gufuvélinni. Þá verður mögulegt að hafa loftför. Eg vona að sjá þau fljúgandi um alt áður en eg dey. Þvílík uppgötvan mundi gjöra mögulegt að knýja skip áfram með rafafli yfir höfin með hraða er næmi 40 til 50 mílum á klukkustundinni — yfir Atlantshaf á 3 dögum''.

Edison álítur samsafn af miklum auð alveg nauðsyn-

legt til að koma hinum miklu fyrirtækjum heimsins í framkvæmd, ekki síður í framtíðinni en að undanförnu. Hann hefir haft eigin reynslu fyrir sér í þessu efni. Hann er orðinn miljónaeigandi sjálfur, og hefir þúsundir manna í þjónustu sinni við ýmislegt, er lýtur að tilraunum til nýrra uppgötvana. Hann ver öllum auð sínum og kröftum í þjónusu vísindanna og meðbræðra sinna. Ef hann hefði altaf verið fátækur maður, þá hefði hann ekki getað afkastað eins miklu í þarfir mannkynsins og hann hefir gjört. Fæstir hafa nokkura hugmynd um,hve mikið sumar tilraunir hans hafa kostað. Þannig var það t. d. þegar hann var að fullkomna áður nefnt *incandescent* rafljós sitt, að alt ætlaði að stranda á því að geta ekki fengið *carbon filament* (nokkurskonar viðarkolaræmur) er væri nógu haldgott til að þola hina nauðsynlegu skiftingu ljósanna; þá sendi hann menn í allar heimsálfur,til að leita að hinum rétta bambus-við til að fá úr efni það er vantaði, og týndist sá af leitarmönnum er fór upp Amazon-fljótið í Suður-Ameríku. En Edison álítur að landstjórnin geti hamlað því, að auðmenn — einstaklingar og félög — misbrúki auðsafn sitt til að sprengja upp það, er almenningur þarf að brúka.

Skoðun Edisons á verkamanna-félagsskapnum er sú, að hann gæti orðið til að hefja meðlimina upp, ef félögin ekki fylgdu þeirri reglu að draga beztu meðlimina niður á sömu tröppu og hinir lélegustu standa á. ,,Vandræðin eru'', segir Edison, ,,að verkamanna-félögin hafa ekki hina beztu menn sína fyrir framan um mál sín, eins og verkgefendur gjöra; þau ganga oft fram hjá vitrustu mönnum sínum, en hafa mestu vindbelgina fyrir leiðtoga''.

Sigtr. Jónasson.

# ÆFINTYRIÐ I CORCÓVADÓ.

(Úr II. þætti „Brazilíufaranna").

Eftir J. Magnús Bjarnason.

---

HÚSBÓNDI minn hét Antonió Ríbeiró. Hann var stóauðugur maður af portúgalskri aðalsætt, og átti fagran búgarð fyrir norðvestan borgina Ríó de Janeiró. Hann hafði fimm um tvítugt, þegar hér var komið sögunni, var vöxtulegur og vænn sýnum, en þó enginn sérlegur kraftamaður og ekki neitt verulega aðlaðandi. Hann hafði fengið töluverða mentun, en var þó ekki alveg laus við ýmsa hjátrú og hindurvitni Suður-Ameríku manna; og strangur forlagatrúarmaður var hann.

Antonió Ríbeiró var æfintýramaður í orðsins fylsta skilningi. Hann var annar Harún al Raschíð — var alt af að leita að einhverju, sem var óvenjulegt, dularfult, og um leið hættulegt. Hann var eins og Nelson lávarður: hann vissi ekki hvað það var, að hræðast; og hann átti skylt við ugluna í því, að vilja vera á ferð um nætur, en ekki um daga. Ég var í þjónustu hans hátt á annað ár og var iðulega með honum á hinu stöðuga næturferðalagi hans. En sjaldan vissi eg, í hvaða erindagerðum hann var, og þess vegna fékk eg þá hugmynd um hann, að hann væri leynilögregluþjónn (eða njósnari) stjórnarinnar í Brazilíu.

Það var eitt kvöld að Antonió bað mig að söðla tvo jarpa hesta, sem hann átti. Og um náttmála-skeiðið lögðum við af stað og riðum suður með borginni að vestan.

Antoníó hafði yfir sér síða kápu dökka, og var með barðastóran hatt á höfðinu. Þegar við höfðum haldið áfram um hríð, komum við á hinn svokallaða *Larangeiras*-veg.

,,Eftir þessum vegi förum við þangað til hann endar", sagði Antoníó.

Larangeirans-vegurinn liggur frá borginn og að rótum Corcóvadó-fjallsins; hann er breiður og rennisléttur. Til beggja handa eru bændabýlin og víða skamt á milli þeirra, einkum nærri borginni. Flest eru húsin löng og breið, en fremur lág, og mörg með loftsvölum. En í kringum þau eru hinir fegurstu aldingarðar og blómareitir. Frá húsunum liggja akvegir og göngustígir, með þéttum röðum af tígulegum pálmatrjám til beggja handa, fram á aðal-veginn. Eftir því sem lengra dregur frá borginni, verður lengra á milli húsanna, en útsýnið alt af yndislegra og tilkomumeira.

,,Þú situr vel á hesti", sagði Antoníó, þegar við höfðum farið um hríð eftir Larangeiras-veginum; ,,og eg vona að þú sért eins þagmælskur og hugrakkur og þú ert góður reiðmaður".

Ég sagðist halda, að eg hefði einmitt lítið af þessum kostum.

Nokkuru síðar heyrðum við að einhverjir komu ríðandi á eftir okkur. Antoníó sagði, að við skildum fara út af veginum, meðan menn þessir færu fram hjá. Skam frá lágu dimm trjágöng út af veginum. Inn í þessi trjágöng fórum við og biðum þar, meðan hinir riðu fram hjá. Fyrst komu fjórir menn í síðum kápum, og fóru mikinn; rétt á eftir þeim kom luktur vagn og fjórir hestar fyrir, og tveir menn ríðandi á eftir.

,,Nokkrir eru eftir enn", sagði Antoníó; ,,við skulum bíða hér þar til að þeir eru allir komnir hjá. Það er mjög áríðandi fyrir mig, að við séum síðastir".

Eftir litla stund komu enn nokkurir menn ríðandi, en fóru ekki eins geyst og þeir fyrri. Allir voru þeir í síðum kápum og með barðastóra hatta á höfði, eins og Antonió. — Rétt í því, að þeir voru að fara fram hjá, hneggjaði hesturinn, sem eg sat á. Mennirnir stöðvuðu nú hesta sína og horfðu inn í göngin.

,,Vertu fyrir svörum, ef þeir ávarpa okkur", hvíslaði Antonió að mér; ,,nefndu ekki nafn mitt".

,,Hver er þar? Svaraðu fljótt!" sagði einn af mönnunum, og það var auðheyrt á röddinni, að hann var bæði sterkbygður og skapmikill.

,,Það er maður", sagði eg.

,,Hvað heitirðu?"

Eg sagði honum það.

,,Hvaðan kemurðu?"

,,Ríó", sagði eg.

,,Hvaða götu?"

,,Rúa dó Ouvídór".

,,Númer?"

,,98"

,,Hvað ertu að fara?"

,,Hingað".

,,Hvað ertu að gera þarna?"

,,Bíða". sagði eg.

,,Og eftir hverjum?"

,,Vin mínum".

,,Við skulum halda áfram", sagði maður, sem var aftastur í hópnum; ,,okkur varðar ekkert um mann þenna eg heyri það á málfæri hans að hann er útlendingur".

Mennirnir héldu svo áfram.

,,Þú svaraðir vel", sagði Antonió, þegar hófadynurinn var að deyja út í fjarlægðinni.

„Ekki veit eg það," sagði eg, „en eg hygg, að það hafi alt verið satt, sem eg sagði."

„En maðurinn, sem talaði við þig, var hann Palmeró —skæðasti refurinn, sem til er í allri Ríó," sagði Antoníó.

Við fórum nú aftur út á Larangeiras-veginn og héldum eftir honum, þangað til hann endaði við rætur Corcóvadó-fjallsins; þar stigum við af baki, gengum upp í hlíðina og teymdum hestana. Neðarlega í fjallinu stóð steinhús, mikið og einkennilegt, og var stór pálmaviðarlundur umhverfis það. Nokkuð neðar í hlíðinni var allmikið byrgi; þar voru nokkurir hestar inni, en enginn maður sást þar.

„Hér skaltu bíða mín með hestana," sagði Antoníó, þegar við komum að byrginu; „en eg kem að líkindum aftur innan tveggja klukkutíma. Ef einhver kemur og fer að tala við þig, þá segðu það, sem þér dettur í hug, en mundu að nefna mig ekki á nafn."

Antoníó gekk svo í áttina til hússins, en eg var eftir hjá hestunum.

Á milli hússins og byrgisins voru á að gizka um tvö hundruð faðmar; á miðri leið stóð dálítið úthýsi úr steini, og voru dyr á þeim stafninum, sem að byrginu vissi. Antoníó gekk rakleiðis að þessu litla húsi, og fór þar inn, og lét hurðina aftur á eftir sér. Ekkert ljós var að sjá þar; en í nokkurum af loftsgluggum aðalhússins sáust ljós, og lagði birtuna út í pálmaviðarlundinn. Eg sá, að tveir menn voru á reiki inni á milli trjánna fyrir framan húsið; þeir voru að sjá í síðum hempum, og báru sig til líkt og hermenn á verði. En þó úti væri sérlega kyrrt og þögult, þá barst samt ekkert hljóð frá húsinu mér til eyrna.

Eg beið við byrgið og hafði alt af augun á dyrunum á litla húsinu, en þær opnuðust ekki. Svo liðu tveir klukkutímar og ekkert sást til húsbónda míns, og enginn kom að byrginu. Þegar þrír klukkutímar voru

liðnir, fór eg að verða órólegur að bíða og fór að hugsa, að eitthvað mjög alvarlegt hefði komið fyrir Antonío. Eg yfirgaf því hestana og lagði á stað til litla hússins til að vita, hvort eg yrði ekki einhvers vísari. Eg gekk fyrst í kring um úthýsið og hlustaði, en ekkert gaf til kynna, að nokkur væri þar inni. Lítill gluggi var á þeim stafninum, sem vissi að stóra húsinu; eg horfði þar inn, en ekkert sást nema kolsvart myrkrið. Eg klappaði svo á hurðina nokkurum sinnum, en enginn kom til dyra. Mér þótti þetta næsta kynlegt, því eg var viss um, að eg hafði séð Antonío fara þar inn, og hafði aldrei séð hann koma þaðan út aftur.

Eftir að hafa beðið nokkura stund við dyrnar, áræddi eg að ljúka upp hurðinni og fara inn. Eg fór mjög hægt og gætilega og þreifaði fyrir mér við hvert fótmál. Eg fann að þar voru ýms verkfæri og ílát, bæði á gólfinu og á veggjunum. Inn um gluggann lagði ofurlitla skímu frá ljósunum í aðal-húsinu, og sýndist mér að maður liggja á gólfinu, rétt fyrir neðan glugganum. Þóttist eg vita, að þarna væri Antonío, annað hvort sofandi eða dauður. Eg gekk nú innar eftir gólfinu til að vita vissu mína um þetta; en þegar eg átti fáein fet eftir að glugganum, þá fann eg, að eg steig fram af pallsnöf og datt ofan á steingólf fyrir neðan.— Eftir að hafa legið hreyfingarlaus um stund, reis eg á fætur aftur og fann, að eg hafði ekki meitt mig mikið— að eins hruflast nokkuð á höndunum og öðru hnénu. Eg reyndi nú strax til að komast aftur upp á pallinn, en það var ekki auðgert, því þar voru engar tröppur, enginn stigi, ekkert þrep, og veggirnir sléttir eins og hefluð fjöl, en svo hátt upp, að eg gat að eins snert pallsnöfina fyrir ofan með fingurgómunum.

Í fyrstu hélt eg, að það væri kjallari, sem eg var í, en brátt komst eg að raun um, að það var ekki. Þetta voru á að gizka fjögurra feta breið jarðgöng, sem að

líkindum lágu frá aðal-húsinu og enduðu þarna undir úthýsinu. Mér þótti það kynlegt, að enginn stigi skyldi vera þar, því það var þó auðséð, að einhver hafði nýlega farið þar um, fyrst hlerinn var ekki yfir uppgöngunni. En svo gat það líka verið, að sá, sem þar fór síðast ofan — hvort sem það var Antonió, eða einhver annar — hefði borið stigann með sér yfir í hinn endann á göngunum, eða skilið hann eftir einhverstaðar á leiðinni.

Eg sá nú engan minn kost annan, en að leggja á stað inn göngin og vita, hvort eg fyndi ekki stigann eða eitthvað, sem gæti hjálpað mér til að komast aftur upp í úthýsið. Eg fór hægt og gætilega, þreifaði fyrir mér með höndum og fótum og taldi skrefin, sem eg fór. Göngin voru þráðbein og slétt; veggirnir voru rakir, og eg fann hráslaga-kulda leggja á móti mér. Þegar eg hafði farið rúm þrjátíu skref, sá eg daufa ljósglætu fram undan, og nokkuru síðar kom eg að hurð, sem var í hálfa gátt. Eg fór nú inn um dyrnar og kom í ofurlítið herbergi, eða öllu heldur stein-klefa, sem var fáein fet á hvern veg. Í klefa þessum var ekkert, nema ein gömul, tóm tunna á hvolfi og lítið ljósker, sem gaf frá sér mjög daufa birtu. Eg beið þarna nokkura stund. Eg heyrði einhvern mikinn nið fyrir ofan mig, eins og mikill fjöldi fólks væri að stíga dans, en engan hljóðfæraslátt heyrði eg, og ekkert manna-mál.

Frá klefanum lá steinrið upp á loftið, og fór eg þar upp og kom í gang mikinn, sem lá eftir endilöngu húsinu; þar var alt bjart, því tveir stórir hengi-lampar voru sinn í hvorum enda á ganginum. Enginn maður sást þar á ferð, en uppi á loftinu var mikil hreyfing, líkast því sem margt fólk væri að stíga þar dans. — Eg vissi nú ekki, hvort eg ætti heldur að gjöra, að ganga upp á loftið og vita,, hvort eg fyndi ekki Antonió þar, eða leita að einhverjum dyrum, þar sem eg gæti komist út; eða í

þriðja lagi, að fara til baka sömu leið og eg kom, taka tunnuna í klefanum, bera hana yfir í hinn endann á jarðgöngunum og nota hana sem stiga til að komast upp í úthýsið. En þegar eg var að brjóta heilann um þetta, opnuðust dyr hinum megin við ganginn, beint á móti mér. Það var aldraður maður, lítill vexti, sem opnaði dyrnar; hann var í kynlegum einkennisbúningi, ekki ólíkum skrúða þeim, sem katólskir prestar bera á stórhátíðum. Hann hélt á lítilli bjöllu og hringdi henni í dyrunum um fáein augnablik, án þess að líta fram í ganginn, og fór svo inn aftur og lét aftur hurðina.

Þó dyrnar stæðu ekki opnar, nema að eins um örfá augnablik, þá sá eg samt að miklu leyti, hvernig þar var umhorfs fyrir innan. Eg sá, að þar var langur og breiður salur,og var hann að mestu tjaldaður svörtum dúkum. (Reyndar sá eg ekki nema um hálfan salinn, þaðan sem eg stóð). Inst í salnum var hár pallur, og sat þar stór og illúðlegur maður við kringlótt borð; en út frá til beggja handa sátu menn á bekkjum við langborð, og hafði hver maður skjöl fyrir framan sig og penna í hendi. Allir voru mennirnir í líkum einkennisbúningi og maður sá, er opnað hafði dyrnar, að undanskildum illúðlega manninum, sem sat á pallinum; hann hafði yfir sér rauða skikkju og var með hárkollu mikla á höfðinu, en á borðinu fyrir framan hann lá stórt tvíeggjað sverð með gyltum hjöltum. En það, sem mest vakti eftirtekt mína, var, að maður stóð bundinn með hendur á bak aftur fyrir framan pallinn, og stóðu tveir risavaxnir menn sinn við hvora hlið hans; hann sneri baki að dyrunum, svo eg sá ekki framan í hann, en mér virtist hann mjög svipaður Antonío í vexti.

Ekki leið löng stund frá því, að bjöllunni var hringt og þangað til eg sá sjö menn koma út um dyr, sem voru þeim megin við ganginn sem eg stóð. Þeir opnuðu dyrnar á salnum og fóru þar inn, hver á eftir

öðrum; og um leið sá eg, að allir, sem fyrir voru í salnum, stóðu upp og hneigðu sig djúpt; og illúðlegi maðurinn á pallinum greip um meðalkaflann á sverðinu með hægri hendinni, en í hinni vinstri hélt hann á skjali. Um leið og hann stóð upp, kraup bandinginn á kné og risavöxnu mennirnir gengu til hliðar. Í því var hurðinni skelt aftur.

Skömmu síðar opnuðust dyrnar í þriðja sinn. Þá sátu mennirnir við borðin og skrifuðu af mesta kappi; illúðlegi maðurinn var horfinn af pallinum, bandinginn sást nú ekki, og ekki heldur risavöxnu mennirnir, en sverðið og rauða skikkjan lágu eftir á kringlótta borðinu.

Mér þótti þetta alt saman sérlega kynlegt og datt í hug sýn Karls Svíakonungs. En þó þóttist eg viss um, að hér væri ekki um nein dularfull fyrirbrigði að ræða, að þetta væru engir andar, sem eg hafði séð, heldur lifandi menn með holdi og blóði. Að öllum líkindum var hér eitthvert leynifélag að halda fund sinn.

Í þriðja skiftið, sem dyrnar opnuðust, komu þrír menn í algengum búningi fram úr salnum og gengu til mín.

„Hefirðu staðið þarna lengi, vinur?“ sagði einn af mönnunum og lagði hönd á öxlina á mér.

„Að eins fáar mínútur,“ sagði eg.

„Ertu nýkominn hingað í húsið?“ spurði maðurinn mjög vingjarnlega.

„Já,“ sagði eg.

„Hvernig komstu inn?“

„Um dyr,“ sagði eg.

„Veit eg það, vinur,“ sagði maðurinn og brosti blíðlega; „en um hvaða dyr komstu?“

„Þessar,“ sagði eg og benti á kjallara-uppgönguna. Eg fann að eg var kominn í gildru og áleit það hyggilegast, að svara afdráttarlaust, en segja þó ekki meira en eg nauðsynlega þyrfti.

„Svo þú hefir þá komið um jarðgöngin?“ sagði maðurinn.

„Já,“ sagði eg.

„Þú ert þó ekki einn af heimamönnunum hérna?“

„Nei, það er eg ekki,“ sagði eg.

„Hvaða erindi áttu hingað?“ sagði maðurinn.

Það kom nú ofurlítið hik á mig, því eg vissi ekki, hverju eg ætti að svara; en alt í einu datt mér ráð í hug.

„Eg þarf að tala við húsráðanda,“ sagði eg.

„En það er hún frú Silva, sem hér er húsráðandi,“ sagði maðurinn; „þarftu endilega að tala við hana?”

„Já, endilega,“ sagði eg.

Maðurinn tók nú höndina af öxlinni á mér og horfði á mig með undrunar-svip um nokkur augnablik, og sagði svo:

„Eg skal koma þér á fund frú Silva. Fylgdu mér eftir.“

Við gengum svo upp breiðan stiga, sem lá upp á loftið. En rétt í því, að við stigum á efstu tröppuna, kom miðaldra kona, há og tíguleg, út úr herberginu, sem var næst uppgöngunni, og ætlaði hún auðsjáanlega að fara ofan stigann.

„Þekkir þú þenna mann, frú Silva?“ sagði maðurinn, sem með mér var.

Konan nam staðar og virti mig fyrir sér litla stund.

„Nei, þenna mann þekki eg ekki,“ sagði hún; „hvað vill hann?“

„Hann segist þurfa að tala við þig, frú Silva,“ sagði maðurinn.

„Við *mig?*“ sagði frú Silva; „og hvernig komst hann hingað inn?“

„Hann kom eftir jarðgöngunum,“ sagði maðurinn; „og stóð fyrir framan dyrnar á fundarsalnum, þegar við tókum fyrst eftir honum.“

„Mér þykir þetta nokkuð undarlegt,“ sagði frú Silva; „en hvað viltu við mig tala, maður?“

„Það, sem eg vil við þig tala, frú mín,“ sagði eg og hneigði mig, „vildi eg að sem fæstir heyrðu.“

„Þú getur ekki talað við mig, nema í viðurvist annara,“ sagði frú Silva þóttalega; „hann herra Cajó þarna er vinur minn, svo þér er alveg óhætt að bera upp erindi þitt, þó hann sé viðstaddur.“

En eg var nú fastráðinn í því, að láta ekki mann þenna heyra það, sem eg hafði hugsað mér að tala við frúna. Eg tók því upp hjá mér vasabók mína og blýant og skrifaði í mesta flýti þessi orð:

*„Þekkir þú Antonió Ríbeiró?“*

Eg rétti svo frúnni vasabókina; hún las það, sem eg hafði skrifað og varð um leið náföl í framan.

„Hvað kemur það *þér* við?“ sagði hún og rétti mér aftur vasabókina.

Eg skrifaði nú aftur í vasabókina: *„Hann er húsbóndi minn.“*

„Nú skil eg,“ sagði frú Silva, og það var eins og það létti af henni þungri byrði. „Já, þessi maður þarf vissulega að tala við mig svo aðrir heyri ekki,“ sagði hún og hneigði sig fyrir manninum, sem hún kallaði Cajó.

Herra Cajó hneigði sig líka, brosti kuldalega og fór ofan stigann; en frú Silva vísaði mér inn í herbergið, sem hún hafði komið úr, og lokaði hurðinni á eftir sér með lykli. Úr þessu herbergi, sem var all-stórt, gengum við yfir í annað, sem var minna en skrautlegra. Þar sat Antonió í mjúkum hægindastól og reykti vindil í mestu makindum. Hann var að sjá fölur og þreytulegur; og eg tók eftir því, að hann var bólginn um úlfliðina og rispaður á annari kinninni.

„Þarna kemur þá Íslendingurinn minn!“ sagði Antonió, þegar hann sá mig ganga inn í herbergið; „eg vissi, að þú mundir fara að leita að mér.“

„Herra Ríbeiró,“ sagði frú Silva, „þú hefir ekki að eins stofnað þér og þjóninum þínum í mikla hættu,

heldur hefirðu líka komið mér í mestu vandræði með forvitni þinni og ofdirfsku. Það er nú enginn vegur til þess, að þið komist aftur út um jarðgöngin; þið verðið því að fara hér út um gluggann og eiga það á hættu, að varðmennirnir sjái ykkur."

Um leið og hún sagði þetta, gekk hún að skáp, sem þar var í einu horninu á herberginu, tók þar út kaðalstiga, rendi honum út um gluggann og festi annan endann við gluggakistuna.

„Farðu nú!" sagði frú Silva; „þú sér mig aftur annað kvöld, herra Ríbeiró, í leikhúsinu í Ríó."

Við fórum svo út um gluggann og ofan kaðalstigann og komumst að byrginu, án þess að nokkur yrði okkar var. En rétt í því, að við vorum að stíga á bak hestunum, heyrðum við að tvö skammbyssuskot riðu af í einu í lundinum á bak við húsið, og um leið hurfu ljósin úr gluggunum uppi á loftinu. Ekkert mannamál heyrðist og ekkert hljóð — ekkert, nema niðurinn í litlum læk, sem steypti sér þar niður hlíðina. — Himininn var dýrðlegur og nóttin björt. En yfir húsinu í hlíðinni hvíldi dimmur skuggi; það var eins og pálmaviðurinn í kring og banana-runnarnir og hin hávöxnu kandelbra-tré með silfraða laufskrúðið væru í sameiningu að reyna til að fela það.

„Nú hefir annar hvor þeirra fallið, eða báðir," sagði Antonío, þegar hann heyrði skotin.

„Hverjir voru það?" sagði eg.

„Það voru tveir meðlimir *Þögla-félagsins,*" sagði Antonío; „þegar einhverjir *tveir* meðlimir þess félags brjóta hinar ströngu reglu þess, þá eru þeir knúðir til að heyja einvígi, sem oftast endar þannig, að *báðir* falla. Þögla félagið er illræmt leynifélag, sem heldur fundi sína um nætur á ýmsum stöðum. Það dregur nafn sitt af því, að enginn félagsmanna talar á fundum þess, nema formaðurinn einn; hinir allir skrifa það, sem þeir vilja láta í ljós. Eg komst á snoðir um það, að félagið

ætlaði að halda fund sinn hér í nótt, og þess vegna fór eg hingað til þess að komast að einhverju af leyndarmálum þess. En þetta tiltæki mitt var næstum orðið bani okkar, og hefði orðið það, hefði ekki hún frú Silva getað bjargað okkur í tæka tíð; en hún er systir forseta félagsins. Að líkindum hefir þú aldrei komist í aðra eins lífshættu og í nótt; en það, sem þú hefir hér séð og heyrt, ættir þú engum manni að segja að svo stöddu."

Eg hefi heyrt margar sögur um Þögla félagið í Brazilíu, sem bæði var margment og öflugt og stóð í blóma sínum um miðja nítjándu öldina. Enginn vissi eiginlega hvert aðal mark og mið þess var, en það þóttust menn vita, að fljótt yrði jafnan um alla þá utanfélagsmenn, sem á einhvern hátt kæmust að leyndarmálum þess. — Nú er félag þetta ekki lengur til.

Það fer ætíð hrollur um mig, þegar eg hugsa um þetta ævintýri, sem eg rataði í — í húsinu í Corcóvadófjallinu — því ef til vill hefi eg aldrei komist í aðra eins hættu á æfi minni, þó eg vissi ekkert um það, fyrr en eftir á.

---

# SAFN

TIL

LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI

---

## Saga íslenzku nýlendunnar í bænum Winnipeg

---

EFTIR SÍRA FRIDRIK J. BERGMANN.

---

### 47. Lögberg byrjar.

Þó Vestur-Íslendingar hefði þegar eignast eitt vikublað all-myndarlegt þar sem „Heimskringla“ var, voru þeir þó ýmsir, sem eigi álitu það fullnægjandi. Þegar Einar Hjörleifsson hætti að eiga nokkur afskifti af því blaði, álitu margir að færasti maður til ritstjórnar í hópi Vestur-Íslendinga hefði lagt niður penna og þótti það illa farið. Enda hefði þá lakar tekist til en skyldi, ef hann hefði ekki fengið færi á að rita neitt, er komið hefði fyrir almenningssjónir, jafn-pennafær maður. En um þær mundir var ekki á mörgum völ.

Var töluvert um nýtt blaðfyrirtæki rætt, eins og gengur, áður nokkuð yrði úr framkvæmdum. Lögðu menn misjafnt til þeirra mála eins og ávalt vill verða, þegar eitthvað nýtt er á prjónum. Sumir hvöttu allfast og þótti þörfin brýn. Aðrir álitu eitt blað nægilegt. Enda illa gjört að hrinda öðru blaðfyrirtæki af hlunnum áður hið fyrra væri búið að koma fótum fyrir sig. Héldu þeir því fram, að nýtt blaðfyrirtæki yrði

að eins til að gjöra út af við Heimskringlu, og til þess myndi líka sá leikur gjör.

Um þetta leyti hætti mönnum ofmjög við að gjöra hvert nýtt fyrirtæki að flokksmáli og var því ekki furða þótt stofnan nýs blaðs yrði það. Heimskringla hallaði sér þegar að íhaldsstefnu í stjórnmálum og nú var talið öldungis víst, að nýtt blað myndi styðja frjálslynda flokkinn.

Í desembermánuði 1887 birtist boðsbréf að nýju blaði undirritað af sex mönnum. Tilkyntu þeir þar löndum sínum, að þeir hefði gengið í félag til að koma prentsmiðju á fót í Winnipeg. Segjast þeir þá þegar hafa leigt hentugt húsnæði, sett upp hraðpressu og pantað letur, sem von sé á innan skamms tíma. Sé áform þeirra það að gjöra prentsmiðju þessa svo fullkomna með tímanum, að í henni megi prenta hvað eina, sem fyrir kemur á algengustu tungumálum. En einkum sé hún í því skyni stofnuð, að hægt verði að prenta blöð, bækur og rit á íslenzku, bæði að tilhlutan félagsmanna sjálfra og annarra, er eftir því kynni að sækjast.

Boðsbréf þetta lýsir yfir því, að hið fyrsta, er félagið ætli sér út að gefa, sé vikublað, er heita eigi *Lögberg*. Á nafnið helzt að samsvara brezka blaðanafninu algenga *Tribune*. Eigi það að kosta tvo dali hver árgangur og verða fult eins stórt og stærsta ísl. blaðið, er þegar hefir verið gefið út í Ameríku (Heimskringla). Skuli það byrja út að koma fyrir árslok 1887.

Lýsir útgáfunefnd þessi ennfremur yfir því, að hún muni hvorki spara fé né tíma, til þess að blað þetta verði sem bezt úr garði gjört. Auk almennra frétta eigi það að hafa meðferðis ritgjörðir um almenn mál, sér í lagi þau, er að einhverju leyti snerta Íslendinga og hag þeirra. Aðal-augnamið með að gefa út blað sé að leiðbeina í atvinnumálum, mentamálum og stjórnmálum. Blaðið eigi að verða óháð öllum flokkum, í

stjórnmálum og öðrum málum og eigi verði það formælandi neins sérstaks lands eða landnáms. En sjálfstæðar skoðanir ætli blaðið sér að hafa á opinberum málum. Enda sé það skylda hvers nýtilegs blaðs að láta álit sitt í ljós og dæma um það, er verða kann að ágreiningi, eftir málavöxtum. Blöð sé nú á tímum lögberg þjóða í þeim málum, er almenning varða, og þegar dæma skal um aðgerðir manna, er opinberum störfum gegni. Nýtt blað myndi ekki ná tilgangi, ef það eigi í þessu efni breytti að dæmi góðra blaða. En einlægur ásetningur sé, að málarekstur allur og dómar, er fram fari að Lögbergi, verði hlutdrægnislausir og sanngjarnir.

Aðsendar ritgjörðir muni teknar verða í blaðið, hvaðan sem þær komi. Spurningum verði svarað, er kaupendum þyki mikils vert að fá að vita sanninn um og muni þeim eins svarað, þó fé þurfi að verja til að afla áreiðanlegra upplýsinga.

Þeir, sem undir boðsbréf þetta voru ritaðir, voru þessir: Sigtryggur Jónasson, Einar Hjörleifsson Bergvin Jónsson, Ólafur S. Þorgeirsson, Árni Friðriksson, S. J. Jóhannesson. Sigtryggur Jónasson mun hafa verið hinn eini þessara manna, sem nokkurt fé lagði af mörkum til að hleypa fyrirtækinu af stað. En þeir Einar Hjörleifsson og Ólafur S. Thorgeirsson styrktu fyrirtækið með því að leggja til þess meira eða minna af kaupi því, er þeim var ætlað, öðrum sem ritstjóra, hinum sem prentara.

Ekki komst blaðið út fyrir áramót eins og lofað var. Fyrsta tölublað *Lögbergs* er dagsett 14. jan. 1888. Í inngangs ritgjörð er drepið á mótspyrnu þá, er fyrirtækið hafi haft við að etja. Er þar sýnt fram á, að lítil ástæða sé til að ætla að blöð, þó tvö sé, verði hvort öðru að grandi. Og færi svo, yrði að líkindum það blaðið að lúta í lægra haldi, sem lélegar væri úr garði gjört og

þá verði hagurinn sá að hafa eignast betra blað en áður. Samkepni sé heppilegust blöðum ekki síður en öðrum fyrirtækjum.

Í sambandi við þetta er það tekið fram, að hin nýja prentstofnan sé áframhald hinna eldri blaðfyrirtækja. Prentáhöld þau, er prentfélag Nýja Íslands átti, hafi keypt verið, og með þeim hafi fyrsta íslenzkt fréttablað, er gefið hafi verið út í Ameríku, *Framfari*, prentað verið. Sömuleiðis hafi félagið keypt prentsmiðju þá, er *Leifur* hafi verið prentaður í og útgáfuréttinn að þeim blöðum. Hafi áhöld þessi verið bætt að miklum mun og mikið keypt af nýjum, bæði letri og öðru. Enda hafi þrír þeirra, er fyrirtæki þetta byrji, verið hluteigendur í prentfélagi Nýja Íslands og tveir þeirra unnið að útgáfu fyrsta íslenzks blaðs í Ameríku, þeir Sigtryggur og Bergvin.

Þeir af útgáfunefndinni, sem eiginlega unnu nokkuð að blaðinu, voru þeir Einar Hjörleifsson, Ólafur S. Þorgeirsson, og Bergvin Jónsson í viðlögum. Var Einar ritstjóri, en þeir prentarar.

## 48. Andlegt líf.

Þegar í fyrsta tölublaði Lögbergs er ritgjörð um félagsskap með Íslendingum, og því heitið, að það áhugamál skuli við og við rætt í blaðinu og mönnum gefnar þær leiðbeiningar í því efni, sem ritstjóra hugkvæmist. Enda var þetta félagsskaparmál rætt og hugsað með Íslendingum, flestum málum fremur. Alt átti að gjörast með félagsskap. Félagsleysi þjóðar vorrar á liðnum tímum óx mönnum svo í huga, að nú héldu þeir, að öllu mætti til leiðar koma með félagsskap. Markmið og ætlunarverk var oft og tíðum hulið þoku. Aðal-atriðið var að mynda félagsskap. Helzt átti það að vera einhver alls herjar félagsskapur, er allir Íslend-

ingar gæti safnast saman í og gefið sig við öllum þeim málum, er Íslendinga snerti.

Þeir, sem skilning höfðu glöggastan í þessu efni, héldu því fram frá byrjan, að mest væri um að gjöra, þegar félagsskapur væri myndaður, að gjöra sér ljósa hugmynd og greinilega um ætlunarverkið. Félagsskapur væri svo sem að sjálfsögðu góður samkvæmt hugmyndinni. En hann mætti aldrei vera í lausu lofti, aldrei stefna út í bláinn, heldur hafa einhvern ákveðinn stein að lyfta úr götu.

*Þjóðmenningarfélag* var myndað í Winnipeg í janúarmánuði 1888 fyrir forgöngu Frímanns B. Anderson. Átti það að vera alls herjar félag Íslendinga í vesturálfu og hafa með höndum öll velferðarmál þjóðar vorrar. Framkvæmdir mun það aldrei hafa haft svo sem neinar, enda kendi þar of mjög þess að hafa ekki gjört sér ljóst, hvert erindið eiginlega var, áður riðið væri úr garði.

*Menningarfélag* svo nefnt var myndað sama árið (1888) suður í Dakota og gerði mest vart við sig í Winnipeg með deilu, sem það lenti í við kirkjufélagið. Var hún að mestu leyti háð af forseta kirkjufélagsins bæði í Sameiningunni og Lögbergi við ýmsa helztu menn í þessu Menningarfélagi út af stefnuskrá þess. Þótti hún nokkuð andvíg kirkju og kristindómi og var svo litið á af mörgum, sem félag þetta væri stofnsett til að hnekkja vexti og viðgangi kirkjufélagsins. En óþarflega mikið var úr þessu gjört eins og gengur og hættan eigi nærri því eins mikil og menn gjörðu sér í hugarlund. En á hinn bóginn varð þetta til þess að vekja ýmsa áhugamenn um mál kirkjunnar til þess að vera vakandi og liggja ekki á liði sínu. Mótspyrnan fellur mönnum oftast ekki í geð. Samt verður hún oft og tíðum nauðsynlegur spori til að knýja það áfram,

sem annars myndi vinna ætlunarverk sitt með hangandi hendi eða hálf-sofandi.

Um þessar mundir tók önnur hreyfing náskyld að gjöra vart við sig. En það var sú hreyfing, sem kend er við Únítara. Gamall maður, Björn Pétursson að nafni, maður vel að sér gjör bæði til líkama og sálar, er eitt sinn hafði verið alþingismaður á Íslandi og ekki átt nema eitt ár eftir til að taka burtfararpróf úr skóla, gjörðist um þetta leyti trúboði þeirrar kirkjudeildar, sem Únítarafélag nefnist. Átti hann um þessar mundir dálítið í höggi við kirkjufélagið og hélt eiginlega fram þeirri skynsemistrú, sem lengi hafði þekt verið á Íslandi. Aldrei gjörði hann það með neinum ákafa eða hita og ávalt bar hann jafn-hlýjan hug til andstæðinga sinna, hvað mikill sem meiningamunurinn var. Enda varð hann fyrir hinu sama hjá þeim. Mun síðar verða frekari grein gjör fyrir starfsemi hans og Útnítarafélagsskaparins með Íslendingum.

Alt þetta varð til þess að auðga andlegt líf um þessar mundir og vekja það upp úr því lognmóki, sem hætt er við, að það annars hefði verið í. Það var mikið um trúarbrögð rætt og hugsað. Og eftir því sem fleiri urðu öflin þeim fremur andvíg, lærðu þeir sem leggja vildu rækt við trú sína, betur að gjöra sér grein fyrir henni og þeim rökum, sem hún hefir við að styðjast.

Af öðrum félagsskap með Íslendingum bar nú einna mest á Goodtemplara-félagsskapnum, sem nú var nýrisinn hér upp. Verður sérstakur kafli ritaður um upptök hans, vöxt og viðgang með Íslendingum í Winnipeg. Um áramótin 1888—9 telst svo til, að 300 manns hafi gengið í þann félagsskap. Áhrifin voru hin beztu. Drykkjuskapur, sem áður hafði verið töluverður, varð nálega enginn.

*Íslendingafélagið* var fremur aðgjörðalítið um þessar mundir. Samt hafði það helzt til meðferðar að-

hlynning og eftirlit með fólki, nýkomnu frá Íslandi, er félaust stóð uppi og einhverrar hjálpar hlaut að njóta, til að hafa hæli og viðurværi á fyrsta ári. Bænir um hjálp til flutnings vestur voru nú farnar að koma frá Íslandi og veitti Íslendingafélagið þeim viðtöku.

Árið 1888 voru innflutningar miklir frá Íslandi. Taldist mönnum svo til, að það ár hefði komið á 13. hundrað Íslendingar til Kanada, að öllum þeim ótöldum, er til Bandaríkja fluttust. Harðæri allmikið var á Íslandi og Ameríku hugur mikill. Hraus mörgum helztu mönnum þjóðarinnar hugur við og ætluðu að leiða mynli til landauðnar. Var þá oft af blöðunum til þess óyndisúrræðis gripið, að nota hvert tækifæri, er bauðst til að sýna fram á, hve hagur Íslendinga væri bágborinn hér vestur frá og að hér væri alt í opnum dauða. Var þá oft vitnað í bréf einhverra, sem hér voru óánægðir, höfðu ekki lag á að koma ár fyrir borð, eða festu hér ekki yndi fyrir einhverra hluta sakir. Stöku sinnum hurfu eldri menn heim aftur sökum óþreyju og var það álitin óræk sönnun þess, að Íslendingum væri nokkurn veginn ólíft í Ameríku.

Winnipeg-blöðin gjörðu sér nú að skyldu að andæfa þessum sögum af alefli og sýndu fram á, hve fráleitt það væri og óbróðurlegt að breiða út ósannar sagnir af högum Vestur-Íslendinga. Aldrei myndi heldur takast að stemma útflutningum stigu með því móti.

Um þessar mundir birtist flugrit gegn vesturförum eftir skáldið Benedikt Gröndal og þótti það runnið af sömu rótum. Var þá all-sterklega tekið í streng af Winnipeg-blöðunum gegn því atferli. Og ekki var um annað oftar rætt með mönnum um þetta leyti. Mönnum fanst sem helztu menn fósturjarðar vorrar væri með þessu að kubba sundur tengslin, sem væri milli fósturjarðarinnar og þess þjóðarbrots, sem vestur hefði flutzt, og tóku sér það allnærri. Enda var vestan-blöð-

unum eigi ósjaldan borið á brýn, að þau mælti með útflutningi af Íslandi af eigingjörnum hvötum. Þau væri erindrekar stjórnarinnar í þeim málum, ekki síður en einstakir menn, er til Íslands væri sendir til að leiðbeina vesturförum.

Bæklingi Gröndals var svarað með öðrum eftir Jón Ólafsson, sem jafneindregið tók í streng á móti þessum sögum og var Vestur-Íslendingum þar á alt annan veg borin saga. Urðu menn því svo fegnir, að einhver varð til þess á Íslandi að tala máli Vestur-Íslendinga og bera hönd fyrir höfuð þeim, að stofnað var til samskota handa honum í ritlauna skyni. Var býsna alment tekið þátt í samskotum þessum, svo að á sumum stöðum gaf nálega hver maður. Var það upphæð allálitleg, sem Jóni Ólafssyni var send.

Aldrei höfðu jafn-fátækir innflytjendur komið frá Íslandi og þeir, sem hingað fluttust árið 1888, en flest af því var hraust fólk, er langaði til að leita sér atvinnu, hvar sem atvinnu var hægt að fá. Eitt af því, sem Vestur-Íslendingar tóku sér nærri um þetta leyti, var það að sveitarstjórnir á Íslandi keptust við að senda sveitarómaga vestur, til þess að losast með því móti við byrðina. Var margt af því fólki ósjálfbjarga öldungis, er hingað kom, og ekki alt sérlega líklegt til að bjarga sér. Ósjaldan voru upp komin börn, er líkleg voru til að verða að gagni, eftir skilin til að vinna af sér skuldina, en foreldrar sendir með börn í ómegð, sem hér áttu engan að, og hlutu að verða Vestur-Íslendingum tilfinnanleg byrði. Urmull af þessu blásnauða fólki kom hingað til lands og má nærri geta, hve tilfinnanleg sú byrði hafi verið, þar sem efnahagur allra stóð enn á næsta völtum fæti og hver maður þurfti á öllum uggum og roðum að halda.

En þegar á hjálp þurfti að halda handa nýkomnu fólki, bar það ósjaldan við, að menn tóku bitann frá

munni sér til að láta það ekki bresta. Vér höfum það fyrir satt, að Vestur-Íslendingar hafi flestum þjóðflokkum fremur verið örsnauðum löndum sínum nýkomnum til lands stórkostlega hjálpsamir. Er óhætt að fullyrða, að það hnekti efnalegum framförum þeirra í bili. En eflaust hefir það aukið blessan í búi og fært þeim andlegan arð, sem eigi verður metinn til aura. Þeir, er fyrstir komu og enga vini áttu né vandamenn fyrir til að ljá þeim skýli yfir höfuð fyrstu nætur eða láta þeim nokkurar leiðbeiningar í té, hafa aldrei látið sér þá tíð úr minni líða og fyr klætt sig úr skyrtu en rétta þeim ekki hjálparhönd, er hælislausir og ráðþrota hafa uppi staðið í ókunnu landi. Þessa líknarskyldu hafa blöðin ávalt örfað eftir mætti og allir málsmetandi menn leitast við að glæða hana og halda henni við.

Allir fundu nú til þess, hvílík framför það var að hafa eignast vikublöð, þar sem öll áhugamál voru rædd af kappi og áhuga. Mönnum fór nú að skiljast, að það var ávinningur mikill, að blöðin voru tvö en ekki eitt. Samkepnin er ein af lífæðum hins andlega lífs og það er heimska ein og hugarburður að ætla að hún sé skaðleg. Hún veldur oft mótspyrnu og flokkadráttum og verður ekki hjá því komist. En út af því fæðist ávalt eitthvað gott og gagnlegt, sem aldrei hefði náð að fæðast, ef tvær ólíkar stefnur hefði ekki þreytt fangbrögð saman og orðið að beita sér af öllu afli.

Auk vikublaðanna var nú líka *Sameiningin*, málgagn kirkjufélagsins, og lagði drjúgan skerf til að auðga hugsanalíf manna. Hún var nú eina málgagnið, sem íslenzka kirkjan átti, og þeim mun meira eftir því tekið, sem hún hafði til brunns að bera. Enda hefir hún aldrei betri verið en á þessum fyrstu árum, þegar hugmyndir manna í ótal efnum voru enn í óskapnaði, en loft fult af þrumum og eldingum og alls konar umbrotum.

Árið 1888 var fyrsta íslenzk bók gefin út hér fyrir vestan og var hún furðu-myndarleg. Það var þýðing síra Jóns Bjarnasonar á bók eftir danska biskupinn og rithöfundinn Markus Jakob Monrad, sem kallaðist „Úr heimi bænarinnar". Þýðingin er sérlega vönduð og bókin sjálf andríkar hugleiðingar stórgáfaðs höfunds út af mikilvægu efni í sambandi við trúarlíf kristins manns. Dýrt var að gefa út bækur um þær mundir eins og nærri má geta. En svo var bók þessari þá vel tekið, að útgáfa hennar mun hafa borgað sig allvel.

Sumarið 1888 flutti síra Jón Bjarnason fyrirlestur á kirkjuþingi, sem hann kallaði „Ísland að blása upp." Var hann prentaður á Íslandi og risu út af honum heilmiklar ágreiningsumræður. Var því þar haldið fram, að Ísland væri að blása upp bæði í líkamlegum og andlegum skilningi. Grasvegur væri óðum að minka af völdum náttúrunnar og gróðrarmagn að sama skapi að þverra í mannssálunum og þjóðlífinu. Þetta var nokkuð nýstárleg kenning og varð æðimörgum hverft við. Ýmsir þeirra, sem bezt þóttust þekkja landið frá vísindalegri hlið, rituðu gegn fyrirlestrinum og sýndu fram á, að þó sums staðar blési jörð upp, græddist hún upp aftur að sama skapi á öðrum stöðum. Síra Jón varði mál sitt í löngum blaðagreinum í Lögbergi og gjörði það mjög rækilega. Voru þær umræður fróðlegar mjög, og í þeim anda, er slíkar umræður ætti ávalt að vera; munu margir meira hafa hugsað um hag lands og þjóðar eftir en áður. Ef til vill á sá áhugi, sem fram hefir komið á seinni árum, með að auka jarðrækt á Íslandi, að einhverju leyti upptök sín í umræðum þessum. Og sýnir það, hve þörf sú hugsan oft og tíðum er, sem mönnum verður hverft við í bili.

Fyrirtæki eitt varð mönnum næsta tíðrætt um, þegar hér var komið sögu. Með innlendum mönnum var kirkjuflokkur sá, er presbytérar nefnast, lang-fjölmenn-

astur og atkvæðamestur í Manitoba-fylki. Einn af forkólfum þess flokks, kennari við almennan mentaskóla, er sú kirkjudeild hefir reist í Winnipeg, fór alt í einu að bera andlegan hag Íslendinga mjög mikið fyrir brjósti. Tók hann að rita um þá fáfræði, sem íslenzkur æskulýður hlyti að vaxa upp í, þar sem miklu færri íslenzk börn færði sér alþýðuskólana í nyt en vera ætti. Sjálfsagt hefir hann haft rétt fyrir sér í því, að ekki hafa þeir verið notaðir sem skyldi. En grun höfðu menn um, að hér lægi fiskur undir steini. Þóttust menn sjá að sá grunur hefði við nokkur rök að styðjast, er hann skömmu síðar tók að gangast fyrir því, að kapella ein var reist á *Kate street*, sem nefnd var *Martin Luther Church* og þar tekið að prédika á íslenzku. Þóttust menn þá skilja, að verið væri með þessu nýja trúboði að leitast við að ná Íslendingum inn í kirkjudeild prespytéra. Mikið var um þetta rætt og þótti þá nýmyndað kirkjufélag Íslendinga vera statt milli tveggja elda, þar sem annars vegar voru Únítarar og menningarmenn, en hins vegar voldugasta kirkjudeildin í landinu. Hvorttveggja varð til þess að vekja og koma öllum hugsandi mönnum til að fara varlega. Flestum varð ljóst af umræðum þeim, sem spunnust út af kapellu presbytéra, að varhugavert væri fyrir þá, sem annars vildi leggja nokkura rækt við trú sína, að halla sér að innlendum kirkjudeildum, breyta að einhverju leyti um trúarskoðanir og hverfa þar um leið eins og dropi í sjóinn í hið innlenda mannfélag. Miklu réttara væri fyrir þá Íslendinga, sem trúrækni vildi á annað borð vera, að halla sér að eigin kirkju sinni og varðveita um leið það, sem þeir kynni að eiga sérkennilegt í fari sínu. Óhug töluverðum sló að mörgum út af þessum kapellu kristindómi. Samt fáum vér ekki betur séð, en að þau uppátæki hafi leiðst út til góðs. Menn voru með því varaðir við að yfirgefa eigið kirkjufélag og sannfærðust um, að það þak, sem mað-

ur hefir sjálfur reist, verður ávalt affarasælast. Enda varð ekkert úr fyrirtæki þessu. Því var haldið áfram nokkur ár í óþökk við flesta oð fekk lítinn sem engan stuðning af hálfu Íslendinga. Og nú er það fyrir löngu alveg dottið úr sögunni.

Saga ein var samin um þessar mundir, er bregður upp mynd all-glöggri af einni hlið lífsins og er alveg sérstök í sinni röð. Það er sagan „Vonir" eftir Einar Hjörleifsson. Hún er lýsing þess, þegar íslenzkir innflytjendur komu til Winnipeg. Vinnumaður og vinnukona trúlofast á Íslandi, sem ekki er nú alveg dæmalaust. Hann hefir safnað fáeinum krónum; nóg að eins til fargjalds handa öðru. Kemur þá stúlkunni það heillaráð í hug, að hún fái peningana og fari vestur á undan. Hann er meinlaus, gjörir þetta óumræðilega nauðugur, en lætur þó tilleiðast. Tveim árum síðar leggur hann sjálfur af stað. Sagan lýsir óþreyju hans og ískrandi tilhlökkun, þegar lestin fer að nálgast Winnipeg. Þegar loksins kemur þangað er fult fyrir af Íslendingum á brautarstöðinni, prúðbúnum mönnum og konum. Er það gefið í skyn, að menn hafi búið sig svo vel, til þess að láta þetta nýkomna fólk sjá, hve óumræðilega mikill munurinn sé á menning Austur- og Vestur-Íslendinga, Winnipeg-Íslendingar hafi komið til móts við landa sína að heiman, svo óumræðilega ánægðir út af því, að til væri verur, er stæði þeim neðar og þeir gæti tekið undir arma sér og sýnt alla þá hjálpsemi, sem þeir voru færir um að láta í té. Einkum var kvenfólkið, sem sumt var ekki búið að vera nema eitt eða tvö ár, búið í bezta skart, í drifhvítum kjólum með kostulega fjaðrahatta á höfðum, sólhlífar silkikögraðar í hendi, hanzka á höndum og gullhring á hverjum fingri, þegar hanzkinn var dreginn af. Flestar af stúlkum þessum töluðu ekki nema ensku og vildu helzt ekki láta nokkurn vita annað en þær væri enskar.

Þarna kom þá Helga líka, unnusta Ólafs, — því svo hétu þau. Lengi starði Ólafur á hana. Hvað eftir annað komst hann að þeirri niðurstöðu, að þetta væri ensk stúlka, gæti með engu móti verið sama stúlka og hann þekti á Íslandi fyrir tveim árum. Loks þekti hann hana, svo hann var ekki lengur í nokkurum vafa, þrátt fyrir það þó hann heyrði hana nefnda ensku nafni og kallaða *Nellie*. Hann herðir upp hugann og heilsar henni. En í stað þess að taka kveðju hans, hrekkur hún saman og hverfur eins og örskot út úr dyrunum. Hann eltir hana út. er nærri búinn að missa sjónar á henni, en náði henni að síðustu. Hann spyr hana þá,, hvort hún ætli ekki að heilsa sér. Þegar hún er búin að skimast um og komast að raun um, að enginn muni sjá til þeirra, segir hún: „Jú, náttúrlega. Kondu sæll, Ólafur. Hvernig líður þér?“ Lýsingin af þeim þar sem þau stóðu saman á götunni, er svo:

„Hann langur, herðalotinn, allur kræklóttur, og bar sig hörmulega; íslenzkt vaðmálskaskeiti á höfðinu, trefill um hálsinn í kapmellu, vaðmálstreyjan og vaðmálsbuxurnar sniðlausar, og íslenzkir leðurskór á fótunum. — *Hún* lágvaxin, þéttvaxin, snoturleg, klædd hvítum sumarfötum eftir síðustu tízkublöðum, með snjóhvíta, langkögraða sólhlíf yfir höfðinu.“

Svo gengu þau saman dálitla stund. En þá fer hún að hugsa um, hvernig hún eigi að losast við hann. Hún var svo logandi hrædd um, að einhver enskur maður, sem þekti hana, kynni að sjá hana með þenna útlenda durg við hlið sér. Hún ráðleggur honum þá að fara aftur á innflytjenda-húsið. Þá er Ólafi nóg boðið. Hann þrífur nokkuð óþyrmilega í handlegg henni og spyr, öldungis frá sér: “Þú ætlar þó ekki að—að—að— svíkja mig, Helga?“ Samtalið endaði með því, að Helga kallar hann durg, skipar honum að sleppa sér, annars

kalli hún á pólitíið. Svo rífur hún sig lausa og hleypur frá honum.

Ólafur stendur eftir höggdofa. Hann svimar og veit naumast hvað fram við hann hefir komið. Hann hafði ekki hugsað um annað en faðmlög og blíðu og alt það ástríki, sem ein mannssál fær annari í té látið, áður hann kemur til Winnipeg. En þegar hann kemur, eru viðtökurnar svona. Heitmey hans, er hann fyrir tveim árum hafði fengið alt það fé, er hann til margra ára hafði saman dregið með súrum sveita, til þess að hún gæti komist til Ameríku og hann fundið hana þar og þau fengið að njótast alla æfi,—hún skammast sín fyrir hann, hún vill ekki láta nokkurn mann af því vita, að hún hafi þekt hann,—hún hrekur hann frá sér um leið og fundum ber saman og hann stendur uppi hælislaus, ráðþrota — svikinn. Hann gengur í leiðslu út úr bænum, þangað til hann er kominn út á sléttuna fyrir utan bæinn. Þar kastar hann sér niður og grætur, — grætur eins og sá, sem alt hefir misst og ekkert hefir lengur að lifa fyrir. „Það heyrði enginn nema sléttan, sem héðan af átti að verða eina unnustan hans og er flestum unnustum betri. Því hún gjörir mann auðugri, þar sem margar unnustur gjöra menn fátækari; því að hún er síung og síhraust og deyr aldrei burt frá manni, heldur tekur mann þvert á móti í fang sér, þegar maður er sjálfur dauður og faðmar mann til eilífðar.“ Svo endar sagan.

Sá, sem í sögu þessari þykist lesa um ræktarleysi Vestur-Íslendinga til bræðra sinna og systra, er heiman koma, myndi verða allfjarri réttum skilningi. Það ræktarleysi hefir aldrei til verið, þó hégómaskapur og fordild og ýmis konar tilgerð kunni stundum að hafa dregið slæður sínar yfir bróðurkærleikann. Engum manni var það fjær að ásaka Vestur-Íslendinga um slíkt ræktarleysi en höf., því hann hafði opin augu fyrir því, sem lagt var í sölur í því tilliti. Aðalatriðið, sem hann ætlar sér að

lýsa eru vonbrigðin,—hvernig loftkastalar þeir, er menn koma með í huga sínum og lítinn stuðning eða engan hafa í veruleikans heimi, hrynja og falla í rústir. Hver maður, sem flytur til þessa nýja lands, verður fyrir þessum vonbrigðum að einhverju leyti, og hefir fundið álíka sárt til eins og Ólafur út af uppsögn unnustunnar. Sagan er að þessu leyti ágæt lýsing þess, sem fram hefir farið í hjarta hvers Vestur-Íslendings með ýmsum tilbreytingum. En sú lýsing nær að eins yfir fyrstu augnablikin. Hún er eins konar forspjall að eins þeirrar sögu, sem þá hefst og enn er óritið. Hún fylgir Ólafi að eins út á sléttuna, þar sem hann léttir hörmum vonbrigðanna af sér með tárum. En hún segir ekki frá því, hvernig Ólafur rís á fætur aftur og ryður sér braut í nýjum heimi. Hann er hælislaus fyrstu nóttina, en það líður ekki á löngu, þangað til hann hefir eignast þak yfir höfuð sér og er farinn að hokra. Og þegar nokkur ár eru liðin, er hann orðinn þeim nokkurn veginn jafn-hliða, sem búskap byrjuðu löngu á undan honum og betur stóðu að vígi í öllum efnum. Og þó Helga brygðist honum illa og hyrfi honum sjónum í dulargerfi hégómlegrar Nellie, fekk hann aðra trúfastari meðhjálp, sem aldrei breytti um nafn og gjörði honum lífið bjart og unaðsríkt.

Hvernig Ólafi gekk, er hann reis á fætur og hristi rykið af fótum sér eftir fyrstu vonbrigðin — því eiga skáldin eftir að lýsa, og er það þó efni í margar góðar sögur.

### 49. Starfsemi Good-Templara.

Eins og áður hefir verið drepið á, var töluverður drykkjuskapur með Íslendingum um þessar mundir. Allflestir þeirra, er hér voru þá, fluttust frá Íslandi um

það leyti, að áfengis-nautn var þar í fullum blóma, og áður en sú hreyfing, er gegn henni var hafin eftir 1880, var tekin að vinna á henni nokkurn verulegan bug. Samt sem áður höfðu seinni ár fáeinir fluzt vestur, er gjörzt höfðu Good-Templarar á Íslandi og heilmikinn áhuga höfðu á bindindismálum. Nokkurir Winnipeg-Íslendingar höfðu hallast að þeim félagsskap hér, með innlendum mönnum, en fremur munu þeir hafa fáir verið. Samt sem áður er óhætt að segja, að tilfinningin gegn drykkjuskaparböli mun hafa vaxið og þroskast með öllum þeim, er létu sér ant um siðferði og góða siðu landa vorra í Winnipeg, allan þann tíma, er þeir höfðu dvalið hér.

Einar Sæmundsen hét maður. Hann hafði um nokkurn tíma dvalið á Englandi með mági sínum, Eiríki Magnússyni, meistara í Cambridge, sem giftur var systur hans. Hann var um þessar mundir kominn til Winnipeg. Mun hann fyrstur allra hafa gjörzt hvatamaður að myndan íslenzkrar Good-Templara stúku í Winnipeg. Að hans tilhlutan var fyrsti fundur haldinn í því skyni að 150 Kate street, þar sem hann átti þá heima, af fáeinum mönnum. Komu þeir sér saman um að gjöra tilraun til að mynduð yrði Good-Templara stúka, og var á þeim fundi bent á Guðmund Jónsson sem kunnugastan mann bindindisstarfsemi með hérlendum mönnum. Þetta var snemma sumars 1887.

Guðmundur Jónsson, kaupmaður, mun því hafa orðið annar hvatamaður til Good-Templara-félagsskapar með Íslendingum í Winnipeg. Hafði hann sjálfur gengið inn í innlenda Good-Templara stúku í bænum. Varð honum töluvert ágengt og vel tekið í málið af ýmsum góðum mönnum. Að þessu munu menn hafa tekið að vinna af kappi í nóvembermánuði 1887. Fundur var þá loks haldinn í Félagshúsi svonefndu til að ræða mál þetta. Var þar samþykkt að mynda Good-Templara

stúku íslenzka og sækja um leyfi til að hún yrði stofnuð eftir gildandi lögum reglunnar. Áður en þetta komst í kring, voru fundir haldnir með vanalegu Good-Templara skipulagi. Þeir Ólafur S. Þorgeirsson, prentari, og Jón Júlíus hjálpuðust að að þýða handbók Templara. Var sú þýðing notuð fyrst framan af, en síðan endurbætt af Einari Hjörleifssyni.

Loks var stúka stofnuð 23. des. 1887 á fundi, er haldinn var í Félagshúsi, og var hún nefnd *Hekla*. Þeir voru 24 talsins, er stúkuna mynduðu, og voru nöfn þeirra þessi:

1. Einar Sæmundsen
2. Ólafur S. Þorgeirsson
3. Halldór Oddsen
4. Guðmundur P. Thordarson
5. Stefán Erlendsson
6. Bjarni Lúðvíksson
7. Kristján Guðmundsson
8. Andrés F. Reykdal
9. Jón Júlíus
10. Sigurður Árnason
11. Friðfinnur Jóhannesson
12. Guðmundur Johnson
13. Halldór Auðunsson
14. Bjarni Johnson
15. Tómas Jóhannesson
16. Sigurður Sölvason
17. Níels M. Lambertsen
18. Þóra Sæmundsen
19. Margrét Skaftason
20. Jóna Magnúsdóttir
21. Jakobína Guðlaugsdóttir
22. Sarah Simons (?)
23. Ingibjörg Thorgrimsen (Mrs. Lund)
24. Sigurlaug Bjarnadóttir.

Reglulegir fundir, eitt kveld í viku hverri í Félagshúsi, hófust um leið og stúkan var stofnuð og kom þegar fram áhugi eigi lítill fyrir því máli, er stúkan hafði sett sér fyrir að reka. Á fundum gengu nýir félagsmenn inn í stúkuna. Þá voru líka velferðarmál hennar rædd og oftast nær skemtiskrá samin fyrir fram fyrir hvern fund; fylgdi þessu nýtt fjör og nýr félagsáhugi. Bættust nú stúkunni brátt heilmargir félagsmenn, bæði karlar og konur. Samt sem áður var mönnum það þegar ljóst, að eigi myndi drykkjuskapar-ófögnuðurinn flýja úr landi við fyrstu atlögu. Í hópi Íslendinga voru þeir nógir, sem að öllum þessum félagsskap hlógu og héldu áfram eftir sem áður að drekka og draga dár að öllum Bakkusarfjendum. Með öllum þorra fólks var meðvitund fyrir nauðsyn þessa félagsskapar enn eigi vöknuð. Mörg bindindisfélög höfðu risið upp á Íslandi, lifað um stund, en hnígið í valinn við lítinn orðstír, án þess að hafa unnið mikið afreksverk. Bindindisfélag hafði stofnað verið áður en til Good-Templara félagsskapar kom til að sporna við drykkjuskap með Íslendingum; hafði það verið gjört fyrir forgöngu helztu manna í söfnuðinum lúterska. En nú þegar Good-Templara félagsskapurinn reis upp og virtist ætla að fá góðan byr, lagðist sá félagsskapur sjálfkrafa niður.

Um tíma gekk alt eftir óskum. Stúkan óx og blómgaðist jafnvel fremur en stofnendur höfðu gjört sér í hugarlund. Nokkurn veginn á hverjum fundi bættust einhverir í hópinn og voru nú forgöngumenn málsins teknir að gjöra sér beztu vonir um öfluga stúku íslenzka. En óvænt atvik kom fyrir, sem um stund dró ofurlítið úr vonum manna, en þó að eins í bili. Um þetta leyti voru flokkadrættir allmiklir með mönnum og menn áttu bágt með að flétta eigi allan skoðanamun að einhverju leyti utan um hvert félagsmál, er þeir höfðu með höndum. Blöðin voru tvö, *Heimskringla* og *Lögberg*. Sum-

ir voru þá Heimskringlumenn; aðrir héldu taum Lögbergs. Sumir voru fylgjendur frjálslynda flokksins í stjórnmálum, sumir íhaldsflokksins. Sumir voru safnaðarmenn, aðrir utansafnaðarmenn. Einkamál manna munu eitthvað hafa til greina komið líka. Þegar tveir menn ráku sömu sýslu, fanst báðum hinn vera í vegi og átti næsta bágt með að vera honum eigi andvígur í öllu. Svo er sagt, að einn maður hafi um þetta leyti viljað ganga í stúkuna og gjörast félagsmaður (Bergvin). En er atkvæðagreiðsla fór fram með kúlum að vanda, var þrem kúlum svörtum rent, en máttu eigi fleiri en tvær vera, til þess eigi yrði umsækjendur rækir. Æðsti templar átti nú að skera úr, hvort maður þessi væri nú í tölu félagsmanna eða ekki. Hann hafði verið í stúkum á Íslandi, þar sem kúlur máttu þrjár vera svartar og kosning samt fullgild. Lýsti hann nú yfir því, samkvæmt því, er hann hafði vanist, að þessi maður hefði hlotið kosning. Út af þessu reis mál, sem lagt var fyrir stórstúku til úrskurðar. En er úrskurður kom frá æðsta templar stórstúkunnar gegn kosning þessara manna, klofnaði stúkan Hekla. Var mikið um það rætt og þótti stór-tíðindum sæta. Var það Heklugos nefnt og spunnust margar sögur út af. Þetta var í ágústmánuði 1888 og voru töluverðar æsingar með mönnum út af gosinu, eins og nærri má geta. Einstöku menn yfirgáfu þá Good-Templara félagsskapinn og álitu að hann myndi aldrei neinu til leiðar koma fyrir sundurlyndi og flokkadrátt.

Reynsla hefir samt sýnt, að þeir höfðu ekki rétt fyrir sér. Hnekkir allmikill varð þetta fyrir stúkuna í bili og daprara varð á fundum, er svo margir af helztu mönnum sneru baki við henni. Allur þorri þeirra, er eftir voru, hélt samt öruggur áfram, enda leið ekki á löngu, áður stúkan fór aftur að rétta við og henni bættust nýir félagsmenn. En þótt æsingar nokkurar og ó-

veður yrði út af þessu sem skjótast, var langt frá að það yrði málum Good-Templara að meini. Ný stúka reis upp og með henni vinsamleg samkepni, sem hverju góðu málefni ávalt er happasælust og bezt verður til að efla vöxt og viðgang. Það er fásinna ein að ætla, að þá sé máli bezt borgið, er það er í fárra manna höndum og þeir ráða þar lögum og lofum ár frá ári. Þvert á móti verður það oft góðum málum að mesta tjóni. Þegar samkepni vantar, dofnar fljótt áhugi og lendir í svefni og sinnuleysi. Hér í mannheimum virðist samkepni mönnum öldungis nauðsynlegur spori til vaxtar og þrifa.

Þeir, er gengu út úr stúkunni Heklu fyrir málarekstur þenna, sátu ekki lengi auðum höndum, heldur mynduðu nýja stúku og nefndu nornarheitinu forna, *Skuld*. Var hún stofnuð 27. september 1888 og er hún því átján ára gömul. Stofnendur hennar voru einir 43 stúkubræður og systur, er sagt höfðu sig úr stúkunni Heklu út af missátt þeirri, er drepið hefir verið á hér að framan. En þessi eru nöfn stofnendanna:

1. Sigurlaug Bjarnadóttir
2. Frú Gíslína Hjörleifsson
3. Ólafur J. Ólafsson
4. Oddný Pálsdóttir
5. Jónína Grímsdóttir
6. Sigurður J. Jóhannesson
7. Frú Guðrún Jóhannesson
8. Magnús J. Borgfjörð
9. Þórður Jósefsson
10. Frú Nanna Benson
11. Þorgerður Jónína Þorgeirsdóttir
12. Jónína Jónsdóttir
13. Vilhelm H. Paulson
14. Kristín Ásmundsdóttir
15. Sigurbjörg Jónsdóttir

16. Inga Kristjánsdóttir
17. Valgerður G. Kristjánsdóttir
18. Ragnhildur Jónsdóttir
19. Hólmfríður Jónsdóttir
20. Stefanía Jósefsdóttir
21. Bjarni Runólfsson
22. Helga Runólfsdóttir
23. Guðjón Thomas
24. Rósa Möller
25. Katrín Arngrímsdóttir
26. Guðmundína Jóhannsdóttir
27. Sigurjóna J. Reinholt
28. Lilja Sveinsdóttir
29. Einar Hjörleifsson
30. Magnús O. Sigurðsson
31. Aðalsteinn Jónsson
32. J. B. Jónsson
33. Sigurbjörn Sigurjónsson
34. Frú Jónína Paulson
35. Páll Sigurgeirsson Bárdal
36. Ólafur S. Þorgeirsson
37. Frú Halldóra Bárdal
38. Klemens Jónasson
39. Björn B. Jónsson
40. Albert Jónsson
41. Jón Blöndal
42. Ása Jakobsdóttir
43. Jakob Johnston.

Fyrstu embætt menn stúkunnar voru þessir:

Ólafur S. Þorgeirsson, æðstı templar
Frú Halldóra Bárdal, vara templar
Klemens Jónasson, kapelán
Björn B. Jónsson, skrifari
Ólafur J. Ólafsson, aðstoðarskrifari
Albert Jónsson, fjármálaskrifari

Jón Blöndal féhirðir
Ása Jakobsdóttir, dróttseti
Sigurlaug Bjarnadóttir, aðst.dróttseti
Þórður Jósefsson, vörður
Magnús J. Borgfjörð, útvörður
Jakob Johnston, fyrv. æðsti templar.

Þegar eftir myndan stúkunnar, var tekið að starfa að því af kappi að efla hana og útbreiða. Bættust henni óðfluga nýir meðlimir hópum saman. Má nærri geta að reynt hafi verið af hálfu beggja stúknanna að ná sem flestum, enda lá nú hvorug á liði sínu. Kom það brátt í ljós, hve mikill gróði samkepnin varð milli stúknanna, Heklu cg Skuldar. Áður langur tími leið, mátti svo að orði kveða, að allur þorri Íslendinga í Winnipeg hefði gjörzt Good-Templarar og heyrði til annarri hvorri stúkunni. En þetta varð auðvitað hinn mesti sigur fyrir málefnið sjálft. Það leiddi til þess öldungis eðlilega, að nautn áfengis hvarf að mestu með Íslendingum í Winnipeg. Höfðu þó talsverð brögð verið að henni áður, eins og áður hefir verið bent á.

Skuld hélt nú fundi eitt kveld í viku hverri. Var þá nýjum félagsmönnum veitt viðtaka og mál stúkunnar afgreidd eftir fastákveðinni dagskrá reglunnar. Þegar því varð við komið, fóru skemtanir fram þar á eftir. Var þá ýmist lesið upp bundið mál eða óbundið úr íslenzkum bókmentum, eða íslenzkir söngvar sungnir af söngfólki stúkunnar; hafði það oft æfingar til undirbúnings og vandaði til alls sem bezt það mátti. Má nærri geta að alt slíkt væri til framfara og skemtana bæði fyrir yngri og eldri. Enda átti stúkan Skuld ágæta forvígismenn framan af, svo sem Einar Hjörleifsson, ritstjóra, síra Jón Bjarnason og konu hans, Jón Ólafsson, ritstjóra, síra Hafstein Pétursson og marga mikilhæfa leikmenn, sem vakað hafa yfir heill og framförum stúkunnar frá byrjan.

Skuld var að því leyti nokkuð einstök í röð stúknanna um þessar mundir, að hún bar menningar áhrifin meira fyrir brjósti en flestar systur hennar. Kom þetta meðal annars í ljós með því, að tveim árum eftir að hún var stofnuð, var komið á fót íslenzku bókasafni. Var keypt allfjölskrúðugt bókasafn prívat manns eins í Winnipeg, Gísla Egilssonar, og var það fyrsta byrjanin. Auk þess var mikið af bókum keypt frá Íslandi og smáaukið nýútkomnum bókum. Var ekkert keypt nema íslenzkar bækur. Safn þetta hefir að meira og minna leyti notað verið af meðlimum stúknanna beggja, Skuldar og Heklu, gegn ofurlitlu árstillagi, sem haft hefir verið til að halda því við.

Ekki var laust við, að ofurlítill kurr ætti sér stað milli stúknanna Skuldar og Heklu framan af og samvinnan þess vegna lítil. En smám saman datt hann niður og þegar frá leið fór samvinna að verða ljúf og farsæl. Árið 1903 fóru stúkurnar að ræða um að koma upp sameiginlegu fundarhúsi, er um leið mætti nota fyrir alls konar samkomur og almennan fundarstað Íslendinga í bæ þessum. Hvor í sínu lagi tóku þær að safna fé í því skyni, og fekk þetta svo góðan byr, að ráðist var í að kaupa lóðarblett á Young-stræti, nálægt Notre Dame Avenue. Nokkuru seinna var sú lóð seld aftur með talsverðum hagnaði og önnur lóð keypt á norðvestur horni Sargent og McGee stræta. Þótti sá staður betur liggja við bygð Íslendinga eins og hún þá horfði við í bænum. Til þess að geta átt eign þessa óhult í eigin nafni, urðu stúkurnar að öðlast löggilding samkvæmt lögum Manitoba-fylkis og var þeim þá sameiginlega nafn gefið og kallaðar „Íslenzkir Good-Templarar Winnipegbæjar“ (*Icelandic Good Templars of Winnipeg*). Fyrir hér um bil ári síðan kusu stúkurnar hvor um sig fulltrúanefnd (Trustees' Committee) til að hafa framkvæmdir allar á hendi, húsgjörðarmáli til undirbún-

ings. Áttu þeir líka að hafa húsgjörðarmálið sjálft með höndum. Fyrir dugnað og ötula samvinnu þessarar húsgjörðarnefndar beggja stúknanna, var því máli hrundið svo áleiðis, að 3. sept. 1906 fór hornsteinslagning fram og þegar þetta er rtað er húsgjörð nokkurn veginn lokið. Verður hún til margra ára sýnilegur vottur þess, af hve miklum áhuga hefir unnið verið af hálfu Good-Templara félagsskaparins í Winnipeg.

Þó stúkan Hekla yrði fyrir töluverðum hnekki svo að segja í byrjan sögu sinnar, eins og sagt hefir verið frá, óx henni svo fiskur um hrygg, að hún ber nú ægishjálm af öðrum stúkum í Manitoba-fylki, bæði innlendum og útlendum. Brátt bættust henni ýmsir ágætir og áhugasamir meðlimir. Beittu þeir áhrifum sínum með þeim, er fyrir voru, til að gjöra stúkuna Heklu að fyrirmyndarstúku að stærð og framkvæmdum. Hepnaðist þetta svo vel, að á fjórtán ára afmæli gat hún hrósað sér af að hafa 300 meðlimi. Var hún þá um leið orðin stærsta stúkan í reglunni eigi að eins í Manitoba-fylki, heldur í allri Norður-Ameríku. Þessum heiðri heldur hún enn. Má nærri geta, að ekki einungis meðlimir stúkunnar sjálfrar óski að sá vegur haldist sem lengst, heldur muni öllum íslenzkum bindindisvinum vera það fögnuður mikill, að Íslendingar eru fremstir í fylking, þar sem verið er að leysa mannkynið úr ánauðarviðjum áfengisnautnar.

Fyrir dugnað þann og áhuga, er stúkurnar, Hekla og Skuld, sýndu í rekstri mála sinna, urðu Íslendingar í meira hluta í framkvæmdarnefnd stórstúku Manitobafylkis og Norðvesturlandsins árið 1900. Þá var síra Jón J. Clemens, er um það leyti var þjónandi prestur í Argyle, kosinn stór-templar. Áhrifum sínum hafa þeir þar beitt mjög hyggilega. Stórstúkan var fjárhagslega í allmiklum voða stödd, þegar Íslendingar urðu þar í meira hluta, þar sem hún var í 600 dollara skuld og átti

alls ekkert til lúkningar þeirri skuld. Nú er skuld þessi goldin að fullu og kvað stórstúkan nú eiga nær sex hundruðum dollara í sjóð', enda hafa ísl. Good-Templara stúkurnar ekki legið á liði sínu, þegar um fjárframlög hefir verið að ræða, til að koma stórstúkunni úr skuldakröggum. Hefir Hekla stundum goldið 40 dollara á ári í þann sjóð, auk lögákveðins gjalds. Enda eru nú sex meðlimir þeirrar stúku embættismenn stórstúkunnar og eru þeir þessir:

Guðmundur Björnsson (Wm. Anderson) æðsti templar.
Frú Guðrún Búason, ritari
Bergsveinn M. Long, gjaldkeri
Helga H. Johnson, dróttseti
Halldóra P. Johnson, aðstoðardróttseti
Kristján Stefánsson, aðstoðarritari.

Árið 1906 er stúkan Hekla 19 ára gömul. Eru nú í henni ekki færri en 226 konur og 114 karlar og eru það samtals 340 meðlimir. Embættismenn stúkunnar voru þessir þegar hornsteinslagning fór fram:

Kr. Stefánsson, umboðsmaður
Sigurður Björnsson, æðsti templar
Agnes Jónsdóttir, vara templar
Halldór Gíslason, gæzlum. ung-templara
Jón Hallson, ritari
Gísli Magnússon, aðstoðar ritari
Bergsveinn M. Long, fjármálaritari
Bjarni Magnússon, gjaldkeri
Jón Benson, kapelán
Anna Th. Pálmason, dróttseti
Solveig Stone, aðstoðar dróttsetti
Metúsalem Jósefsson, vörður
Sigurbjörn Pálsson, útvörður
Friðrik Guðmundsson, fyrv. æðsti templar.

Þeir, sem voru embættismenn stúkunnar Skuld, eru þessir:

Guðjón Hjaltalín, æðsti templar
Margrét Hallson, vara templar
Helgi Þórðarson, kapelán
Frú Karólína Dalmann, skrifari
Sigrún Johnson, aðstoðar skrifari
Gunnlaugur Jóhannsson, fjármálaritari
Sigfús Jóelsson, féhirðir
Gróa Sveinsson, dróttseti
Víglundur Davíðsson, aðstoðar dróttseti
Ástvin Jónsson, vörður
Jóhannes Jónsson, útvörður
Guðmundur Bjarnason, fyrv. æðsti templar
Ingibjörg Jóhannesson, umboðsmaður
Guðrún Jónsdóttir, gæzlumaður ung-templara.

Um það leyti voru 95 konur og 80 karlar í stúkunni; samtals 175.

Í byggingarnefndinni voru þeir, sem nú skal greina, og mun þeirra lengi getið, sökum dugnaðar í húsgjörðarmáli stúknanna.

I. Fyrir hönd Skuldar:

Gunnlaugur Jóhannsson
Guðmundur Bjarnason
Ásbjörn Eggertsson
Sigfús Jóelsson
Magnús Jónsson.

Fyrir hönd Heklu:

Kristján Stefánsson
Bjarni Magnússon
Jón T. Bergmann
Jóhannes Sveinsson.
B. M. Long.

Í sambandi við stúkuna Heklu má geta þess, að hún hefir stofnað sjúkrasjóð eigi lítinn og hjálpað mörgum, þegar sjúkdómar og neyð hafa að höndum borið.

Nemur það fjárupphæð allmikilli, sem sú stúka hefir af mörkum látið til að inna líknarskyldu af hendi, og sýnir það, að fleira hefir verið haft í huga en bindindismálið eitt.

Enis og áður er tekið fram stendur þessi nýreista bindindishöll á horni Sargent og McGee stræta. Lóðin er 40 fet á breidd og 80 á lengd. Húsið er gjört úr tígulsteini og höggnum steini og er jafn-breitt lóðinni eða 40 fet og nærri jafn-langt eða 75 fet á lengd. Sveinn Brynjólfsson, múrmeistari, hefir gjört alt steinverkið. Aðalsamkomusalurinn er húsinu því sem næst jafn-stór. Hann tekur yfir alla breidd þess og lengd, nema hvað tvö ofurlítil biðherbergi taka dálítið rúm. Með báðum hliðum sals þessa eru veggsvalir og sömuleiðis fyrir framgafli. Undir loft í salnum eru 20 fet. Í kjallaranum er annar samkomusalur, tvö biðherbergi og eldhús. Undir loft niðri verður hæð 11 fet. Að samkomusölunum báðum er aðgangur frá biðherbergjunum niðri. Tveir hitunarofnar eru í kjallaranum og heitt loft leitt um alt húsið. Áætlað er að sæti verði fyrir 600 manns í efri salnum. Öll mun eignin verða um 16 þúsund doll. virði. Þegar þetta er ritað (des.), er húsgjörð þessi svo langt komin að lokið verður að öllu snemma ársins 1907. Stendur þá hús þetta eins og veglegur minnisvarði Good-Templara félagsskapar Íslendinga í Winnipeg. Eins og áður er tekið fram, eru það stúkurnar Hekla og Skuld, er leyst hafa þrekvirki þetta af hendi; eiga þær húsið einar og hafa af því allan veg og vanda.

Þriðja stúkan hefir myndast í Winnipeg af ísl. Good-Templurum. Nefnist hún *Ísland*. Var hún stofnuð 4. maí 1904 af stór-templar Guðmundi Anderson. Á stofnskrá stúkunnar voru þessir:

1. Vilhjálmur Olgeirsson
2. Þórður Kristján Kristjánsson

3. Jóhannes Benedikt Kristófersson
4. Jón P. Ísdal
5. Þorsteinn Ísdal
6. Karl Eymundsson
7. Þorsteinn Þ. Þorsteinsson
8. Hjálmar Árnason
9. Bjarni Anderson
10. Hjálmar Gíslason
11. Jóhanna Olgeirsson (Gísladóttir)
12. Vilborg Gísladóttir
13. Sigríður Björnsdóttir
14. Sigsteinn Stefánsson
15. Styrkárr V. Helgason
16. Jón Jónatansson.

Fyrstu embættismenn stúkunnar voru þessir:

Þórður Kr. Kristjánsson, umboðsmaður
Vilhjálmur Olgeirsson, æðsti templar
Jóhanna Olgeirsson, vara templar
Sigríður Björnsdóttir, kapelán
J. P. Ísdal, gjaldkeri
Þorsteinn Þ. Þorsteinsson, ritari
Jón Jónatansson, aðstoðar ritari
Vilborg Gíslason, dróttseti
Jóh. B. Kristófersson, innri vörður
Karl Eymundsson, útvörður
Hjálmar Gíslason, fyrv. æðsti templar
Sigsteinn Stefánsson, fjármálaritari
Helga Olgeirsson, gæzlumaður ung-templara
Stefanía Baldvinsdóttir, aðst. dróttseti.

Stúkan heldur fundi sína á fimtudagskvöldum. 1904—5 mun hæst hafa verið meðlimatal stúkunnar og var það þá um 80 manns. Nú mun það vera nálægt 60. manns. Engan þátt hefir þessi stúka tekið í húsbygging hinna stúknanna.

# Tveir feðgar.

---

MARGA mun reka minni til, að síðla vetrar 1901 héldu merkishjón ein gullbrúðkaup sitt norður í Mikley, sem er ey ein í Winnipegvatni og telst til Nýja-Íslands. Það var 7. marz það ár, að þau hjónin, Stefán Jónsson og Björg Kristjánsdóttir, héldu hátíðlega minningu þess, að þau höfðu 50 ár verið í hjónabandi. Voru þeim þá stórgjafir gefnar og margvíslegur sómi sýndur, bæði af nágrönnum og fjarlægum vinum. Kom það þá fram, hve dugnaður og atorka og félagslyndi ávalt er metið sem ágætustu kostir í fari hvers manns. Enda er víst óhætt að segja, að fáir vestur-íslenzkra landnámsmanna hafa úr traustara málmi steyptir verið en þau hjón bæði. Vér eigum í hópi vorum ýmsa, sem nú eru í þann veginn að ráða skipum til hlunns, en hafa verið hraustmenni svo mikil til sálar og líkama, að lítið standa þeir fornum landnámsmönnum Íslands á baki. En slíkra manna langar ávalt Almanakið til að minnast, hve nær sem því verður við komið.

Stefán Jónsson er fæddur á Einarsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu 1831, þar sem faðir hans bjó rausnarbúi á óðalseign. Tvítugur gekk hann að eiga Björgu Kristjánsdóttur á Sigríðarstöðum í Ljósavatnsskarði, þar sem foreldrar hennar, Kristján Arngrímsson og Helga Skúladóttir, prests að Múla í Þingeyjarsýslu, bjuggu á eignarjörð sinni og þóttu sómahjón hin mestu.

Árið 1877 fluttust þau, Stefán og Björg, til Ameríku og námu land í Mikley og kölluðu bæ sinn að Jónsnesi. Er svo sagt, að hann hafi á Íslandi þrisvar orðið af með aleigu sína, áður hann kæmist til Vesturheims, við tilraunir að komast af landi burt. En eigi lét hann það fyrir brjósti brenna, heldur brauzt það að síðustu, þrátt fyrir allar tálmanir. Marga örðugleika hefir hann átt við að etja flestum frumbýlingum fremur, en eigi látið bugast. Hann lenti þar í flóðunum miklu; hálffyltist þá hús hans vatni, enda lá við sjálft, að bygð gjöreyddist af þeim völdum.

Niðri í húsi þeirra hjóna varð vatn 3—4 fet og urðu þau að flýja með börn sín upp á loft. Á nóttum var frost svo mikið, að þar var mannheldur ís að morgni sem vatn var að kveldi. Urðu þau þá að sitja eldlaus nóttina alla. En klaklaust og hugrökk komust þau hjón gegn um þessa örðugleika og alla aðra, því kjarkurinn var mikill og fjör og dugnaður að sama skapi.



Kjartan Ísfeld Stefánsson.

Heimili þeirra hjóna að Jónsnesi í Mikley hefir verið hið myndarlegasta, timburhús, stórt og vandað með miðstöðvarhitan, og rammbyggilega og vel um alt búið, eins og títt er hjá dugnaðar og atorkumönnum. Fimm barna hefir þeim auðið orðið, fjögurra dætra og eins sonar.

Sonurinn hét Kjartan Ísfeld Stefánsson.

Hann var fæddur 14. nóvember 1871 í Flatey í Skjálfanda og fluttist ungur með foreldrum sínum til Ameríku. Var hann látinn njóta náms í æsku eftir föngum, þangað til hann leysti skipstjórapróf af hendi, er veitti honum leyfi til að vera skipstjóri á vötnum í Kanada. Kvæntist hann 29. sept. 1895 og gekk að eiga Vilhelmínu Oddsdóttur, dóttur síra Odds V. Gíslasonar, en lézt síðastliðið sumar.

Kjartan var líkur föður sínum að fjöri og dugnaði og var talinn af öllum, sem hann þektu, drengur hinn bezti. Hann var ötull og áræðinn skipstjóri, hagleiksmaður hinn mesti, er hann gekk til annarrar vinnu, hvers manns hugljúfi í allri umgengni, félagslyndur og framtakssamur í því er til heilla mátti horfa. En atorku hans og dugnaðaðar naut að eins skamma stund. Hann druknaði í Winnipegvatni síðastliðið sumar 12. júní, þrjár eða fjórar mílur suðaustur af Hnausum. En lík hans fanst ekki fyr en 20. júní, er það rak upp í Eyjólfsstaðafjöru. Han lét eftir sig ekkju og þrjár dætur.

Það má nærri geta, hve tilfinnanlegur sonarmissirinn hefir orðið bæði foreldrum og tengdaforeldrum, sem hjá honum hefði helzt hugsað til elli-athvarfs. Enda er vestur-íslenzku mannfélagi tjón mikið að slíkum mönnum, er þeim er burtu kipt á bezta aldri. Einkum mun foreldrum hans vera söknuður sár eftir einkason, og þá ekki síður hitt að fá ekki lengur haldist við á jörðinni, þar sem þau hafa eytt öllum kröftum og verða nú, háöldruð bæði, að hverfa burt þaðan, er þau hefðu helzt viljað fá að loka augum að loknu verki. En nú er þess eigi langt að bíða, að við þeim taki vötnin miklu, er öllum er ætlað yfir að fara. Og er þá vinum þeirra öllum gott til þess að hugsa, hve vel og örugglega þau styðjast við höndina sterku, er leitt hefir þau yfir öll vötnin á leið þeirra, heldur þeim enn uppréttum í vötnum sorgarinnar og leiðir þau að lokum í friðsæla höfn hinum megin vatna, þegar eyjarvistinni er lokið og þau fá að flytja til meginlands.

---

## Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.

---

Í desembermánuði 1905 útskrifaðist frá *Toronto College of Music*, herra Jónas Pálsson, með beztu einkunn. Hann á heima í Winnipeg og er ættaður úr Borgarfj.s.

---

Í maímánuði 1906 tók Hjálmar A. Bergman lögfræðispróf við háskólann í Manitoba. (Hafði áður lokið sams konar prófi við háskólann í Grand Forks í N.-Dak., sbr. Almanak 1904.

Í sama mánuði útskrifuðust frá College deild Manitoba háskólans:

Þorvaldur Þorvaldsson, og
Emily Anderson, — bæði með ágætis einkunn.

---

Frá *Gustavus Adolphus College*, í St. Peter, Minn., tók burtfararpróf í maímánnði 1906, ungfrú Guðný Hofteig, dóttir Sigurbjarnar Hofteig, bónda í Vesturheimsbygð í Minnesota.

---

Frá háskólanum í Grand Forks í N.-Dakota útskrifuðust þessir íslenzkir lögfræðingar, í júnímánuði 1906:

Sveinbjörn Johnson, stjúpsonur Ólafs Jóhannessonar, bónda við Akra í N.-Dakota.

John S. Samson, sonur Jónasar Samson, bónda við Akra í N.-Dakota.

Guðm. S. Grímsson, sonur Steingríms bónda Grímssonar að Milton í Norður-Dakota, og bróðir síra Jóns heitins Steingrímssonar.

---

Við kosningar í N.-Dakota 6. nóv. 1906 náðu þessir Íslendingar embættum:

John Johnson, bóndi við Gardar, þingmensku fyrir neðri deild N.-Dakota þingsins.

Magnús Brynjólfsson, lögfræðingur í Cavalier, málfærslumannsembætti fyrir Pembina Co.

George Peterson, lögfræðingur í Pembina, héraðsréttarskrifara-embætti í Pembina Co.

Elís Thorwaldsson, kaupmaður á Mountain, gjaldkera-embætti fyrir Pembina Co.

Pétur Johnson, lögfræðingur, málafærslumanns-embætti í Cavalier Co.

Gunnar Olgeirsson, lögfræðingur, skiftaréttardómara-embætti í McLane Co.

---

Við kosningar til bæjarstjórnar í Winnipeg, 11. des. 1906, náði Árni Eggertson, fasteignasali, kosning í 4. kjördeild (ættaður úr Borgarfirði). — Einn Íslendingur hefir áður setið í bæjarstjórn í Winnipeg, Árni kaupmaður Friðriksson.

---

## MANNALÁT.

24. febr. 1905. Baldvin Helgason í Warrenton, Oregon, (ættaður frá Skútustöðum við Mývatn, flutti vestur um haf frá Gröf í Húnav.s. 1873), gamall maður.

29. sept. 1905. Sesselja Guðný Sigurbjörnsdóttir, kona Friðsteins bónda Sigurðssonar við Íslendingafl., 55 ára.

2. okt. 1905. Ingibjörg Jóhannesdóttir, kona Jónasar bónda Jóhannessonar á Grænmörk í Víðinesbygð í Nýja-Íslandi, 78 ára.

5. okt. 1905. Guðrún Gísladóttir, ekkja Vernharðs Jónssonar óðalsbónda Þórðarsonar (er bjó í Tómhaga í Árness.), 79 ára gömul.

7. okt. 1905. Málfríður Rósa Guðmundsdóttir kona Jósefs Guðmundssonar, bónda í Árnesbygð í Nýja-Íslandi, 44 ára.

20. okt. 1905. Margrét Oddsdóttir til heimilis hjá syni sínum Guðmundi Einarssyni í Victoria, B. C. (ættuð úr Stafholtstungum í Mýrasýslu), 81 árs.

30. okt. 1905. Guðmundur Sigurðsson til heimilis hjá syni sínum Aðalmundi bónda við Gardar, N.-D. (frá Skálum á Langanesi), 80 ára.

29. nóv. 1905. Gísli Jónas G. Eiríksson, stjúpsonur Tómasar Halldórssonar, bónda að Mountain, N.-D., ungur maður.

nóv. 1905. Kristín Jónsdóttir, kona Helga Sveinssonar í í Selkirk, dóttir Jóns Jónssonar bónda í Mikley (frá Svarfhóli í Stafholtstungum), 30 ára.

1. des. 1905. Torfi Sveinsson í Glenboro, Man. (úr Dalasýslu), 83 ára.

5. des. 1905. Arnfríður Jónsdóttir, kona Stefáns Björnssonar Anderson í Grunnavatns-bygð í Manitoba.

9. des. 1905. Arinbjörn Arinbjörnson, Sigmundssonar (frá Þorvaldsstöðum í Breiðadal) í Lewiston í Michigan, 36 ára.

9. des. 1905. Dínus Jónsson við Hallson N.-D. (ættaður úr Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu, flutti hingað vestur 1879), gamall maður.

15. des. 1905. Áróra dóttir þeirra hjóna Friðriks Sveinssonar og Sigríðar Jónsdóttur Laxdal, í Winnipeg, 14 ára.

20. des. 1905. Þorgils Árnason í Winnipeg (frá Randamel í Snæfellsnessýlu), gamall maður.

23. des. 1905. Septina Einarsdóttir, Sveinssonar í Wpg, (frá Akureyri), 14 ára.

24. des. 1905. Kristín Rósbjörg Jóhannesdóttir í Wpg, (ættuð úr Húnavatnss.), 16 ára.

27. des. 1905. Jón Þorsteinsson (prests Þórðarsonar að Gufudal í Barðastrandarsýslu), hjá syni sínum Jóni bónda í Alberta-nýlendunni, 88 ára.

30. des. 1905. Sigurður Jakobsson, Oddssonar, bónda að Gimli (úr Þingeyjarsýslı), 29 ára.

31. des. 1905. Jósef Sigurbjörnsson Jónssonar (frá Stóru-Giljá í Húnavatnss.), í Wpg, 22 ára.

Des. 1905. Jón J. Söldal, bóndi að Mountain, N.-D. (ættaður úr Þingeyjarsýslu), aldraður maður.

JANUAR 1906:

1. Oddbjörg Björnsdóttir (prests Þorlákssonar, síðast á Höskuldsstöðum á Skagaströnd), til heimilis hjá bróður sínum Þorláki í Boyonne, N. Jerey, 57 ára.
2. Magnúsína Halldóra Hákonardóttir, í Wpg., 28 ára.
9. Vilborg Vigfúsdóttir, til heimilis hjá tengdasyni sínum, Friðbirni Friðrikssyni, bónda í Argyle-bygð. (Ekkja Jóns Bergvinssonar úr Fljótsdal N.-Múlas., 73. ára.
10. Halldóra Gunnarsdóttir, hjá Sigtryggi syni sínum í Albertanýl., ekkja Jóhanns Halldórssonar (úr Reykjadal í Þingeyjars.), 73. ára.
11. Guðrún Einarsdóttir, gullsmiðs Sveinssonar í Wpg., (frá Akureyri), 18 ára.
14. Björg Benediktsdóttir, í Wpg, (frá Neðri-Mýrum í Húnavatnssýslu), 79 ára.
20. Marín Jónsdóttir, kona Halldórs Daníelssonar, (frá Langholti í Mýras., fyrrum þingm.), nú til heimilis við Wild Oak, Man., 67 ára.
27. Kristján Jónsson, bóndi að Eyford í N.-Dakota (úr S.-Þingeyjarsýslu), 75 ára.

FEBRUAR 1906:

2. Bjarni Jónsson, trésmiður í Pembina N.-D., (úr Mjóafirði í N,-Múlas.), 39 ára.
3. Kristín, dóttir Summarliða Sumarliðasonar, í Ballard Wash. (frá Æðey á Ísafirði), 21 árs.
3. Jón Bergmann Guðnason, bóndi í Gardarbygð, (frá Þverbrekku í Yxnadal í Eyjafjs.), 47 ára.
10. Sigurður Friðrik, sonur Sigurðar heit. Árnasonar og og ekkju hans Karítasar Ólafsdóttir, við Burnt Lake, í Alberta.
10. Halldóra Gunnarsdóttir, í Alberta, 73 ára.
22. Einar Jónsson, Hnappdal að Hallson, N.-D., 77 ára.
24. Guðrún Halldóra Jónsdóttir, kona Kristjáns Sigurðssonar Eyford, bónda í Pine Valley Man.,(frá Blönduhlíð í Skagaf.), 47 ára.
25. Guðni Tómasson, Jónssonar, (frá Kárastöðum í Þingeyjars.), 55 ára.

Herdís Hannesdóttir, ekkja í Árnesbygð í N.-Íslandi, (af Vatnsleysuströnd á Íslandi), 79 ára.
Þorsteinn Guðnason í Utah, (eitt sinn lögregluþjónn í Reykjavík).
Kristján Jónsson, bóndi að Mountain, N.-D. (af Norðurl.).

MARZ 1906:

13. Hjörleifur Björnsson, bóndi í Árnesbygð (ættaður úr Dyrhólasókn í Skaftafellss., fluttist vestur um haf 1876), 65 ára.
14. Laufey Jósefsdóttir, Goodman, til heimilis hjá Aðalm. bónda Gnðmundssyni í Gardar-bygð, (ættuð af Langanesi), 20 ára.
19. Sigurjón J. Davíðsson, í Winnipəg, 30 ára.
20. Margrét Guðmundsdóttir, í Selkirk, ekkja Jóhannesar heit. Egilssonar (frá Höfðahólum á Skagaströnd), 80 ára.
23. Carl Friðrik Möller, að heimili sonar síns Antons, að Milton N.-D. (f. á Akureyri 1822, fór vestur um haf 1882), 84. ára.

APRÍL 1906:

1. Sigurbjörg Krisjánsdóttir í Long Pine, Nebraska, ekkja Tómasar Halldórssonar (ættuð úr Laxárdal í Þingeyjars.), 65 ára.
11. Guðrún Magnúsdóttir, á heimili sonar síns Odds Jónssonar í Gardar-bygð, N. D., ekkja Jóns Jóhannessonar (og bjuggu um langan aldur á Bræðrabrekku í Strandasýslu), 80 ára.
14, Steinunn Jónsdóttir, ekkja Benjamíns Jónssonar (ættuð úr Dalas.), til heimilis í Wpg, 78 ára.
16. Anna Gunnarsdóttir, í Wpg, ekkja Jóhanns Guðmundssonar (bjuggu síðast á Ísl. á Bergsstöðum í Miðfirði), 70 ára.
19. Páll Kristján, sonur Stefáns Björnssonar bónda í Swan River, Man., 25 ára.
22. Andrea Metta Elísabet Margrét Fischer, síðari kona Gunnars Einarssonar í Wpg, (ættuð úr Rvík), 62. ára.

23. Jónas Jónsson, að Gimli, (ættaður úr Blönduhlíð í Skagafirði), 71. árs.
26. Helgi, sonur Helga Árnasonar, bónda að Churchbridge, Sask. og konu hans Guðrúnar Jónsdóttur (frá Hvammi í Ölfusi í Árness.), 24. ára.
26. Þorvaldur Rögnvaldsson, hjá tengdasyni sínum J. Loftssyni, í Calgary, (ættaður úr Tungusveit í Dalasýslu), 65 ára.
27. Sigríður Árnadóttir, hjá syni sínum Stefáni í Wpg., ekkja Guðm. Jónssonar (bjuggu í 40 ár á Steinsstöðum í Skagafirði), 97 ára.
29. Ingunn Björnsdóttir, Skúlasonar, í Winnipeg (frá Eyjólfsstöðum á Völlum í S.-Múlas.), 63. ára.

MAÍ 1906:

4. R. Dora Johnson í Pembína, N.Dak., 29 ára.
7. Jón Kristjánsson, hjá bróður sínum G. J. Christie á Gimli (frá Særingsstöðum í Húnavatnss.), 20 ára.
11. Lilja Daníelsdóttir, til heimilis hjá tengdasyni sínum Jóni S. Thorlacíus, að Kristnes-pósthúsi Sask., kona Jóhannesar Bjarnasonar(frá Stóradal í Eyjaf.),69 ára.
19. Jórunn, kona Eiríks Hallssonar, bónda að Mary Hill pósthús í Man., 49 ára.
26. Guðrún Jónsdóttir, kona Steingríms Jónssonar að Milton í N.D. (úr Borgarfjarðars.), 71 ára.
31. Þorsteinn Guðmundsson, hjá tengdasyni sínum, Paul Johnson í Winnipeg (bjó síðast á Ísl. á Einfætingsgili í Strandas., fluttist hingað vestur 1876), 66 ára.

JUNÍ 1906:

5. Elinbjörg Gunnlaugsdóttir, kona Gísla Einarssonar bónda að Hekla pósthúsi í Ontario (fædd á Litlu-Tjörnum í Ljósavatnsskarði), 67 ára.
9. Jóna, dóttir Davíðs Jónssonar bónda í Gardar-bygð.
9. Björn Finnsson í Glenboro,Man.,(ættaður úr Dalas.).
9. Jón Dínusson í Winnipeg, sonur Dínusar Jónssonar, er lést að Hallson, N.-Dak., 9. des. 1905.

9. Magnea, kona A. Rasmussens að Hnausa-pósthúsi í N.-Islandi, dóttir síra Einars Vigfússonar frá Desjarmýri.
12. Kjartan Stefánsson, Jónssonar frá Mikley (er hans getið hér á öðrum stað).
13. Kristján, sonur Tryggva Kristjánssonar, bónda í Gardar-bygð, N.-D. (af Langanesi), 19 ára.
22. Hallgrímur Backmann í Selkirk Man., aldraður maður.

Jens J. Sigurðsson, í Minnesota-nýlendunni (ættaður frá Seli á Skagaströnd), 65 ára.

JULÍ 1906.

7. Magnús Mikaelsson *Foss*, að heimili tengdasonar síns Hallgríms Gottskálkssonar, bónda í Lincoln Co. í Minnesota (frá Fossi í Vopafirði), 77 ára.
8. Arndís Magnúsdóttir, kona Jónasar Bergssonar að Minneota (ættuð úr Breiðdal), 93 ára.
14. Halld. Soffía Þorleifsdóttir, kona Jóhannesar bónda Jónssonar við Íslendingafljót, 37 ára.
16. Sigríður Jónsdóttir, ekkja Eggerts Jónssonar, sem lézt við Narrows í Manitoba fyrir 9 árum síðan (úr Hörðudal í Dalasýslu), 69 ára.
17. Kristín Árnadóttir, til heimilis hjá syni sínum Jónasi, bónda að Milton, N.-D., ekkja Kristinns Friðfinnssonar (frá Ási á Hólsfjöllum), 73 ára.
23. Gísli Jónasson, að heimili tengdasonar síns Jóns Geirssonar, bónda í Árdals-bygð í Nýja-Íslandi (faðir Þorst. Gíslasonar, ritstjóra í Rvík,, 73 ára.
25. Eiríkur Vigfússon í Winnipeg (frá Breiðuvík í Reyðarfirði).
29. Helgi Jónasson, Sigurðssonar (frá Bakkaseli í Yxnadal í Eyjaf.), til heimilis í Alberta-nýlendunni, 45 ára.
31. Benedikt Pétursson, að Gardar í N.-D. (var lengi á Akureyri og síðast á Seyðisfirði og fluttist þaðan vestur um haf 1879), 68 ára.

Gísli Guðmundsson, hjá tengdasyni sínum Sig. Eyjólfssyni, bónda í Árdalsbygð í Nýja-Íslandi (frá Hnúki í Miðfirði).

Kristín Stefanía Stefánsdóttir, kona Jóns bónda Jónsson-

ar í Gilhaga í Árdalsbygð í N.-Ísl. (frá Gilhaga í Skagafirði).

Sigríður Þorbergsdóttir, í Red Deer, Alta, ekkja Hafsteins Skúlasonar, 80 ára.

Jóhanna Jónsdóttir, kona Ólafs Péturssonar, í Spanish Fork, Utah.

Jón Jónsson *Wagen*, í Argyle-bygð (frá Vogum við Vopnafjörð), um sjötugt.

ÁGUST 1906.

3. Sigríður Jónsdóttir, ekkja Jóhannesar Ólafssonar, er lézt í Winnipeg fyrir nokkurum árum (af Húsavík), 75 ára.
4. Hróðný Björnsdóttir, Einarssonar frá Brú á Jökuldal, kona Friðriks Eggertssonar í Wadena, Sask.
5. Hólmfríður Vigfúsdóttir, í Winnipeg (úr Vopnafirði), 70 ára.
9. Una Stefánsdóttir, hjá tengdasyni sínum Ara Johnson í Winnipeg, ekkja Oddleifs Sigurðssonar, er lézt í Nýja-Íslandi 1876 (úr Húnavatnssýslu), 79 ára.
9. Sigþrúður Gísladóttir, Jónssonar að Wild Oak, Man., 15 ára.
10. Ófeigur Sigurðsson, bóndi í Alberta-nýlendunni.
12. Björn Gíslason, að heimili sonar síns, Eyjólfs bónda í Vesturheimsbygð í Minnesota (frá Hauksstöðum í Vopafirði, flutti vestur um haf 1879), 86 ára.
12. Hólmfríður Guðnadóttir, kona Sigfúsar Goodmans, bónda í Alberta (ættuð úr Eyðaþinghá), 43 ára.
23. Jóhanna Jónsdóttir, Guðlaugssonar (úr Rvík), kona Bjarna Bergmanns í Victoría, B.C.
26. Jóhanes Jónsson, sonar sonur og fóstursonur Jóhannesar Einarssonar í Selkirk, (frá Hnappsstöðum í Vopnafirði), 19 ára.
26. Jóhanna Pálsd. Jakobssonar bónda í Mikley, 19 ára.
26. Loftur Guðmundsson, til heimilis á Gimli (af Suðurlandi), 40 ára.

SEPTEMBER 1906.

1. Benedikt Jónasson, bóndi að Gimli (frá Krossi í Ljósavatnsskarði, fluttist hingað 1876).

11. Elías Kjærnested, bóndi nálægt Gimli (ættaður úr Eyjafirði, en fluttist hingað frá Borg í Dalasýslu), 76 ára.
12. Guðbjörg Guðmundsdóttir, hjá syni sínum Sigurjóni Stefánssyni, bónda við Akra í N.-D. (úr Langanessveit í Þingeyjarsýslu).
13. Ólafur Ólafsson, Jónssonar, bóndi í Árdalsbygð í N.-Ísl. (ættaður úr Húnavatnssýslu), 57 ára.
22. Björn Kristjánsson, Skagfjörð, til heimilis hjá syni sínum Kristjáni, í Morden, Man. (ættaður úr Skagafirði, flutti vestur um haf 1873), 74 ára.

Guðrún Guðmundsdóttir, í Winnipeg, ekkja Sig. Rögnvaldssonar (ættuð úr Skagafirði).

Október 1906.

3. Björn Illugason, hjá tengdasyni sínum Gnðm. Gíslasyni, bónda að Gardar, N.-D. (frá Beinakeldu í Skagafirði), 92 ára.
7. Málfríður Guðmundsdóttir, kona Jósefs Guðmundssonar, bónda í Geysis-bygð, 44 ára.
7. Sigríður Högnadóttir, kona J. F. Leifssonar, bónda að Fishing Lake, Sask., (ættuð úr Árnessýslu), 42 ára.
11. Ingibjörg María Guðmundsdóttir, í Winnipeg (úr Reykjavík), 74 ára.
13. Björn Jóhannsson, á Gimli (ættaður úr Skagafirði), 40 ára.
15. Einar Guðmundsson, í Winnipeg (af Jökuldalsheiði á Austurlandi, fluttist þaðan 1876), 72 ára.
20. Brynjólfur Björgólfsson, í Winnipeg (af Vopnafirði), 73 ára.
30. Guðm. Þorláksson, sonur Ólafs G. Nordals, í Selkirk Man., og konu hans Margrétar Ólafsdóttir (frá Kirkjubæ í Norðurárdal), 38 ára.
31. Árni Niels, sonur Kristjáns Jónssonar, Geiteyings, í Winnipeg, 36 ára.

Jón Mathíasson, í Álftavatnsbygð í Manitoba (frá Hergilsey á Breiðafirði), á níræðisaldri.

NÓVEMBER 1906:

5. Sesselja Jónsdóttir, til heimilis hjá tengdasyni sínum Tryggva Ingjaldssyni, í Árnesbygð, ekkja Andrésar Ólafssonar, timbursmiðs (fædd á Brúum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu 1810), á 97. aldursári.

6. Guðný Kristjánsdóttir, kona Th. Laxdals, bónda að Þingvalla-pósthúsi í Sask.

7. Jónína Rósa Holm, Edvarðsdóttlr, Þorleifssonar, frá Papey, kona Gunnars Jóhannessonar Holm, í Mariette, Washington.

10. Páll Vigfússon Dalmann, bóndi í Gardar-bygð í N.-Dak. (ættaður úr Jökuldal í N.-Múlas., fluttist þaðan 1876), 73 ára.

10. Einar Jónsson, til heimilis hjá syni sínum Jóni, bónda við Hensel-pósthús í Norður-Dak., (ættaður úr Dalasýslu), 75. ára.

DESEMBER 1906.

11. Soffía Olson, kona Jóns Sigfússonar Olson, bónda í Álftavatns-bygð, 53. ára.

11. Sigurjón Ólafsson (Þormóðssonar frá Hjarðarholti) að Dog Creek-pósthúsi í Manitoba, 46 ára.

15. Úlfar Gunnlaugsson í Selkirk (úr Vopafirði), 54 ára.

26. Sigurður Guðmundsson, til heimilis hjá syni sínum Sveini í Winnipeg, 84 ára (úr Húnavatnssýslu).



# INNIHALD.